*Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist !*



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

**Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)**

17.tbl. 4.árg. 19.sept. - 3.október 1978 150 kr.

# Arnarflug gleypt

Einokunarauðvaldið á Íslandi færir stöðugt út kvíarnar. Fáir en geysilega voldugir einokunarhringir drottna í framleiðslu, samgöngum og fjármálalífi og hafa ríkisvaldið að bakhjarli. Sambandið (SÍS) er nærtækt dæmi um voldugan ísl. auðhring, Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna er annað. Síðan má nefna Flugleiðir (samsteypa Loftleiða og Flugfélagsins að undirlagi ríkisvaldsins) og Eimskipafélagið. Allt eru þetta risar á sínum sviðum, risar sem reyna að gleypa allt sem ógnar veldi þeirra. Sambandið og SH hafa barið niður allar tilraunir einstakra frystihúsakapítalista til að selja fisk fram hjá sölukerfum auðhringanna, Eimskipafélagið hefur lengi glímt við að koma Hafskip á hausinn og nú síðast skipafélaginu Bifröst. Flugleiðum stóð ógn af litlum flugfélögum og hefur þegar lagt undir sig sum þeirra. Fyrst gleyptu Flugleiðir Flugfélag Norðurlands, en nú á dögunum náði hringurinn hljóðlega undir sig Arnarflugi. Var þar um að ræða flutning á fjármagni milli Sambands-hringsins og Flugleiða, þar sem Flugleiðir keyptu hlutabréf í Arnarflugi sem Sambandsfyrirtækin Olíufélagiðhf., Reginn hf., Olíustöðin í Hvalfirði og Hið ísl. steinolíufélag á áttu. Í staðinn keypti Sambandið hlutabréf í Flugleiðum fyrir drjúgar fúlgur.

Þannig skerast leiðir í undirheimum fjármálalífs einokunarauðvaldsins. Þannig er þróunin í auðvaldsheiminum þegar "hin frjálsa samkeppni" auðherra breytist í einokun. Afleiðingin er risaskref fram á við á þróunarbrautinni í átt til samfélagslegrar framleiðslu. Fyrir auðvaldið þýðir aukin einokun meiri hagræðingu og aukið arðrán, aukinn gróða. En "ok það sem fáir einokunarburgeisar leggja á allan landslýð verður mörgum sinnum þyngra, tilfinnanlegra og óbærilegra" (Lenín: Heimsvaldastefnan bls. 30).

## Nýtt bónuskerfi hjá BÚR

# Aukin vinnuþrælkun

Bónuskerfi eru mikilvæg tæki atvinnurekenda til að auka arðrán á verkafólki. Slík kerfi virka þannig : - atvinnurekandinn leitast við að ákveða mörk bónuslauna eins lágt og hægt er til að auka sem mest vinnuafköst verkafólks. Þegar vinnuhraði verkafólksins er orðinn meiri við aukna þjálfun, og launin eru þar með orðin hærri, leitast atvinnurekandinn við að lækka launin á ný. Á þennan hátt getur honum tekist að auka enn á afköstin, en halda laununum um leið sem mest í skefjun

Í reynd þarf þetta ekki að leiða til þess að laun verkafólks rýrni eða standi í stað. Launin geta hæglega hækkað, samtímis því sem arðránið eykst. "Með meiri gernýtingu vinnunnar er hægt að láta menn eyða jafnmikilli lífsorku á einni klukkustund og tveimur áður..... Með því að spyrna gegn þessum tilraunum auðvaldsins og berjast fyrir kauphækkunum í hlutfalli við aukinn vinnuhraða, er verkamaðurinn aðeins að rísa gegn verðrýrnun á eigin vinnu. ..." (Karl Marx, Laun verð og gróði, Úrvalsrit I, 194).

### FUNDUR Í BÆJARÚTGERÐ REYKJAVÍKUR

Ofangreind lýsing á við það bónuskerfi, sem stjórn Bæjarútgerðar Reykjavíkur ætlar nú að koma á í fiskverkun á sínum snærum. Þess má um leið geta að "vinstri" meirihlutinn í Reykjavík hefur tögl og haldir í þessari stjórn, og sjálfur verkalýðsspáfi Reykjavíkur, Guðmundur Jaki á þar sæti. Mánudaginn 11. sept. sl. var haldinn fundur yfirmanna BÚR með verkafólkinu, þar sem kerfi þetta var "kynnt", og síðan voru haldnir smærri fundir með verkafólkinu til að sannfæra það um kosti kerfisins. Á fundinum voru einnig m.a. Bolli Thoroddsen frá ASÍ, tæknifræðingur frá Rekstrartækni hf, sem "hannaði" kerfið og loks sjálf Þórunn Valdimarsdóttir, formaður Framsóknar. Ekki þarf að taka það fram að allir voru þessir aðilar meðmæltir bónuskerfinu. Hlýhugur "verkalýðsforingjanna" í garð fyrirtækisins komu einnig vel fram, einkum var Þórunn smeðjuleg í hrósi sínu um þetta "lýðræðislega" fyrirtæki. Verkafólk bar fram ýmsar spurningar um það hvernig kerfið mundi virka í framkvæmd gagnvart þeirra eigin störfum. Svörin voru

frh. á bls. 2

## 1. DESEMBER

Framkvæmdanefnd Baráttunefndar 1. des. frá í fyrra hefur nú hafið undirbúning að því að eitthvað verði gert í tilefni dagsins í ár. Er ráðgert að halda stofnfund Baráttuhreyfingar 1. desember 1978 þann 4. október n.k. Staður og stund verða nánar auglýst síðar.

Framkvæmdanefnd Baráttunefndar 1. des. 1977

# Árásir Albana á leiðtoga Kína

7



Myndin: Húa Kúo-feng og Sjáseskú rúmeníuforseti er Húa heimsótti Rúmeníu í ágúst. Vegna heimsóknar Húa til Evrópu réðust albanskir og sovéskir leiðtogar á Kína.

**Flugleiðir færa út kvíarnar:**

**Yfirtaka Arnarflug**

– kau

**Einokun eflist**

Mikil var stemmningin á stofnfundi Arnarflugs, þegar áhugamenn komu saman til að leysa hið dauðvona Air Viking af hólmi og leggja hlutafé af mörkum til að hamla með réttu eða ... gegn ofurvaldi Flugleiða.



# Þakklæti fyrir vel unnin störf

Í Þjóðviljanum 13. sept. má lesa frétt þess efnis að um 120-140 forstjórar frystihúsanna á landinu sé boðið til vikudvalar í Bandaríkjunum af Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna og dótturfyrirtækinu Coldwater. Það eina sem Þjóðviljinn, málgagn "sósíalisma, verkalýðshreyfingar og þjóðfrelsis", hefur við þetta að athuga er að ferð af þessu tagi muni kosta um 15 milljónir króna bara í flugfargjöld.

Eins og önnur málgögn borgarstéttarinnar í landinu, þegir Þjóðviljinn um hið raunverulega, sem liggur

frh. á bls. 3

Miðvikudagur 13. september 1978 ÞJÓÐVILJINN — SIÐA 3

**Sölumiðstöðin býður til Bandaríkjanna**

**120-140 í vikuferð**

***Hverju frystihúsi á landinu boðið að senda fulltrúa***

A sunnudaginn kemur leggur stór hópur frystihúsaforstjóra upp í vikuferð til Bandaríkjanna í boði Sölumiðstöðvar hraðfrystihúsanna og dótturfyrirtækis hennar, Coldwater. Í hópnum verða 120-140 manns, og fararstjóri verður Guðmundur H. Garðarsson blaðafulltrúi Sölumiðstöðvarinnar.

Samkvæmt upplýsingum Hjalta Einarssonar framkvæmdastjóra SH hefur þessi ferð verið í bígerð nokkuð lengi. Í vor hóf Coldwater starfrækslu nýrrar verksmiðju í Boston, og mun hópurinn skoða hina nýju verksmiðju og verksmiðju Coldwater í Cambridge, en einnig verða aðalstöðvar Coldwater í New York heimsóttar.

Hverju frystihúsi innan SH var gefinn kostur á að senda menn í þessa ferð, og munu flestir þátttakenda vera framkvæ... stjórar eða forráðamenn frystihúsa. Nokkrir verkstjórar verða einnig með í ferðinni.

Flugfargjöldin ein til New York og Boston fyrir 140 manna hóp kosta varla mikið minna en 15 miljónir króna.

—eös

## Frá framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l):

# „VINSTRI" STJÓRNIN ER ENGINN VALKOSTUR !

Á bls. 2 í blaðinu er birt ítarleg greinargerð framkvæmdanefndar miðstjórnar Einingarsamtakanna um ríkisstjórn Ólafs Jóhannessonar. Eru lesendur hvattir til að kynna sér viðhorf samtakanna til "vinstri" stjórnarinnar, en í lokaorðunum er matið dregið saman á eftirfarandi hátt:

"Almennt má um ríkisstjórnina segja : Hún boðar á vissan hátt leiðréttingu frá afturhaldsstefnu síðustu stjórnar, slíkt er þó mjög minni háttar. Hún boðar aukna stéttasamvinnu og virðir ekki samningsréttinn. Hún hverfur að nokkru frá landsölustefnu síðustu stjórnar, a.m.k. í orði. Hún boðar minni háttar kjaraleiðréttingar, en einnig aukin álög á almenning. Hún boðar breytta utanríkisstefnu en að öllum líkindum aukna samvinnu við hitt risaveldið Sovétríkin". ""Vinstri" stjórnin er enginn valkostur: hún á aðeins skilið baráttu. Efling fjöldabaráttu og efling hins kommúníska forystafls er sá valkostur sem alþýða landsins hefur".

2

**Áskrift greiðist á gíró nr. 12 200 - 9**




Í síðasta tölublaði Vbl. var "vinstri" stjórninni gerð nokkur skil, en því jafnframt lofað að bætt yrði um betur. Er það gert hér með.

# Frá framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l)

# „VINSTRI" STJÓRNIN ER ENGINN VALKOSTUR !

## 1. Ríkisvaldið og þingræðið

Borgaralegt þingræði, eins og er hér á Íslandi, er eitt form á yfirráðum auðstéttarinnar yfir þjóðfélaginu. Í borgaralegu þjóðfélagi eru völd auðstéttarinnar yfir öllum þáttum þjóðfélagsins tryggð, m.a. einkaeign á framleiðslutækjunum og þar með arðrán manns á manni. Völd auðstéttarinnar yfir ríkisvaldinu eru alger, enda skipa einstaklingar úr hennar röðum öll mikilvægustu embætti þess. Ríkisvaldið er því hvort tveggja í senn, þjónn auðvaldsins og hluti af því. En borgaralegt þingræði og lýðræði tryggja jafnframt, eins og fólk þekkir, mjög mikilvæg félagsleg réttindi. Því ber að verja þetta form á yfirráðum auðstéttarinnar, sem miklu betri kost heldur en grímulaust alræði sömu stéttar, fasismann.

En borgaralegt þingræði býður þó ekki upp á að hægt sé að framkvæma neinar veigamiklar breytingar á þjóðfélaginu í þágu verkalýðs og alþýðu innan ramma þess, hvað þá að verkalýðurinn geti tekið völdin og skapað sósíalískt þjóðfélag. Þær breytingar sem hægt er að ná fram, eru minni háttar og tíðast knúðar fram með baráttu fólksins sjálfs. Þetta er afstaða marx-lenínista til hins borgaralega ríkis og þingræðis auðstéttarinnar. Falssósíalistar á borð við forystu Alþýðuflokks og Alþýðubandalags líta ekki svona á málin. T.d. sagði Þjóðviljinn, þegar síðasta "vinstri" stjórn var mynduð eitthvað á þá leið, að ný stétt, þ.e. verkalýðurinn hefði tekið völdin!!! Eins og að ný ríkisstjórn, sem þar að auki er vitanlega hluti ríkisvaldsins, breyti einhverju um eðli þess! Þessir flokkar halda því fram, hvor í sínu lagi, að það eina sem vanti, sé jú að kjörfylgi þeirra aukist, svo þeir geti fengið umboð til að stjórna og breyta í þágu alþýðunnar. Þetta segja þeir við alþýðu manna fyrir kosningar. En jafnframt þessu bítast flokkarnir innbyrðis um það, hvaða leiðir séu heppilegastar til að stjórna auðvaldsþjóðfélaginu á sem heppilegastan máta fyrir auðvaldið sjálft, eða þann hluta þess, sem viðkomandi flokkur er fulltrúi fyrir.

En hver hefur reynslan verið, bæði íslenskrar og erlendrar alþýðu? Í Chile stóð Allende bandarísku auðhringunum fyrir þrifum. Honum var steypt umsvifalaust af stóli. Allir vita hvernig það fór. Hér á landi hafa aldrei skapast skilyrði fyrir sterka fasíska hreyfinu, enda hefur íslenska auðvaldið ekki þurft á henni að halda. Hér hefur enda aldrei verið sett á laggirnar stjórn sem gengið hefur í berhögg við hagsmuni þess. Þær stjórnir, sem "sósíalistar" hafa tekið þátt í, fyrst og fremst Nýsköpunarstjórn svo og tvær vinstri stjórnir og nú sú þriðja, hafa aldrei verið nein ógnun við hagsmuni auðstéttarinnar, heldur þvert á móti. Þá hafa verið gósentímar fyrir það. Orsökin er sú, að þá sem aldrei fyrr hefur stéttasamvinnan orðið öflug og "vinnufriður" haldist, eins og það er kallað.



## 2. Verkefnasamningur ríkisstjórnarinnar

Ljóst er, að hann á að verulegu leyti aðeins að gilda til skamms tíma. Aðalatriði hans eru: Söluskattur felldur niður af matvælum, niðurgreiðslur auknar. Þetta á hvort tveggja að draga úr vísitöluhækkunum á kaup um ca. 10%. Samningarnir, sem útrunnir eru 1.des. skulu framlengdir og verðbætur, samkvæmt síðustu samningum, greiddar á laun upp að 230 þús.; þar fyrir ofan sama krónutala. Bætur almannatrygginga taka sömu hækkunum, aðrar en fæðingarstyrkur(!)

Verðstöðvun skal sett á, bæði yfir vörur og þjónustu, og hækkanir óheimilar, nema að fengnu leyfi ríkisvaldsins. Í skattamálum er m.a. talað um að leggja eignaskattsauka á einstaklinga og félög, 50-100% af álögðum eignaskatti. Sérstakur 6% tekjuskattur er lagður á tekjur sem skattskyldar eru, 2,22. millj. hjá hvoru hjóna og 2,8 millj. hjá einstaklingum fyrir skattárið '77. Börn á framfæri hækka tekjumarkið. Á árinu '78 skal leggja sérstakan 6% skatt á tekjur af atvinnurekstri, eða sjálfstæðri starfsemi, samkvæmt ákveðnum reglum.

Vörugjald er hækkað á allmörgum vörum, s.k. lúxusvörum, úr 16%-30%. 10% gjald skal lagt á allan ferðamannagjaldeyri. Ríkisútgjöld skulu lækkuð um 2 milljarða. Jafnframt þessu hefur verið gerð 15% gengisfelling. Rekstrarafkomu atvinnuveganna á að bæta um 2-3% með vaxtalækkunum og lækkun annars rekstrarkostnaðar. Vísitöluna á að taka til endurskoðunar fyrir 1. des. n.k.

Draga skal úr erlendum lántökum. Taka skal upp beina samninga milli fulltrúa bænda og ríkisvaldsins. Fresta á tollalækkunum til að styrkja samkeppnisaðstöðu ísl. iðnaðar. Gefin er yfirlýsing um, að engin áform séu um innstreymi erlends áhættufjármagns í stóriðju. Setja skal löggjöf um réttindi leigjenda og sömuleiðis um atvinnulýðræði og byrja skal á því að veita starfsfólki aðild að stjórnum ríkisfyrirtækja. Þá skal fylgja óbreyttri utanríkisstefnu.

Þetta eru mikilvægustu atriðin sem fram koma í samstarfsyfirlýsingunni.

## 3. Mat EIK(m-l)

Mat EIK(m-l) á þessum atriðum er eftirfarandi: Kaup verkafólks er hækkað um stundarsakir, sem því samsvarar að samningar hefðu verið í gildi (ca. 7-11% hækkun). Kaup er ekki greitt aftur fyrir sig. Frjáls samningsréttur er ekki virtur, þar sem, annars vegar, að samningarnir eru framlengdir með lagaboði, en hins vegar að fólk, sem var með kaup yfir 230 þús., sem nokkur hluti alþýðufólks hefur, fær ekki greiddar fullar vísitölubætur. Kaupmáttur mun væntanlega sáralítið aukast, vegna þess að auknar niðurgreiðslur og afnám söluskatts af matvælum veldur því, að vísitölubætur, sem ella hefðu verið greiddar, falla niður, en hins vegar að skattar eru auknir og gjöld á aðra neyslu. Gengislækkunin veldur einnig verðhækkunum á ýmsum vörum og þjónustu, sem aðeins að hluta er bætt með bótum samkvæmt kaupgjaldsvísitölunni. Vegna þess að kaupgjaldsvísitalan tekur ekki til allra vara, þjónustu, skatta o.fl., táknar framlenging samninganna einnig kjararýrnun. Niðurstaðan af öllu þessu verður væntanlega sú, að kaupmátturinn eykst lítillega, en áhrif þessarar aukningar hverfa mjög fljótt og hann mun væntanlega fara nokkuð minnkandi það sem eftir er ársins og næsta ár að öllu óbreyttu.

Verðstöðvun er ekki nýtt fyrirbæri; það hefur sýnt sig, að ríkisvaldið heimilar allar hækkanir sem einhverju máli skipta, fyrst og fremst til stórfyrirtækja og einokunarhringja svo og þjónustu á vegum ríkisins. Þetta stuðlar þannig að einokun og vaxandi ríkiskapitalisma. Á sama benda yfirlýsingar stjórnarinnar um aukið eftirlit og afskipti af atvinnurekstrinum.

Það er jákvætt, að auknir skattar eru lagðir á hátekjufólk, en líklega eru mörkin of lág. Hvað varðar auka skattlagningu á atvinnurekst- urinn, skal bent á að skattalöggjöfin er sniðin fyrir auðvaldið, þannig að líkur eru á, að heimtur verði litlar, vegna bókhaldstaprekstrar flestra fyrirtækja. Jafnframt virðist sem verið sé að taka úr öðrum vasanum og setja í hinn, vegna þess að loforð stjórnarinnar liggja fyrir um það, að rekstrarstaða fyrirtækja verði bætt um 2-3%, auk þess sem gengishagnaði er öllum úthlutað til útgerðar og frystihúsaeigenda.

Yfirlýsingar um að dregið verði úr erlendum lántökum, tollalækkunum frestað og ekki skuli flutt inn fjármagn til stóriðju, eru jákvæðar og framför frá því sem seinustu stjórnir hafa staðið fyrir, bæði s.k. hægri og vinstri. Reynslan á hins vegar eftir að sýna hverjar efndirnar verða. Síðasta "vinstri"stjórn samdi við Union Carbide.

Í yfirlýsingum stjórnarinnar kemur fram, að hún stefnir að því að treysta stéttasamvinnuna mjög verulega. Samstarfsnefnd um endurskoðun vísitölunnar, samstarfsnefnd til að hamla gegn verðbólgunni, og "aukið atvinnulýðræði"; allt stefnir þetta í þá átt. Verkafólk hlýtur vissulega að hafna þessu öllu. Vísitölumálið á að vera samningsatriði í kjarasamningum. Verkafólk ber ekki ábytgð á verðbólgunni og atvinnulýðræðið margrómaða hefur sýnt sig í að vera blekking ein til að fylla verkafólk samábyrgð með féndum sínum, auðvaldinu.

Um utanríkismálin var fjallað nokkuð í síðasta tbl. VB.; nú hafa efnahagsmálin forgang, samkvæmt því sem forysta Alþýðubandalagsins heldur fram. Seinast var það landhelgin og ekki skal hrófla við hernum eða NATO. Alþýðubandalagið á svo annríkt, með samstarfsflokkum sínum, að bjarga auðvaldinu frá sinni eigin kreppu. Annars er um þetta að segja:

1) Ekki skal hrófla við herbækistöðvum bandarísku heimsvaldastefnunnar, né efnahagslegum tengslum við hana.

2) Líklegt er þó, að pólitísk og efnahagsleg samvinna við hitt risaveldið, Sovétríkin, fari vaxandi, vegna góðra tengsla a.m.k. hluta pólitískrar forystu Alþýðubandalagsins og Framsóknar, svo og fyrirtækja, sem eru í tengslum við flokkana (SÍS og ýmis innflutnings-fyrirtæki tengd Alþýðubandalaginu) Nýja vinstri stjórnin mun ekki tákna sjálfstæðari utanríkisstefnu.

## 4. Lokaorð

Almennt má um ríkisstjórnina segja: Hún boðar á vissan hátt leiðréttingu frá afturhaldsstefnu síðustu stjórnar, slíkt er þó mjög minni háttar. Hún boðar aukna stéttasamvinnu og virðir ekki samningsréttinn. Hún hverfur að nokkru frá landsölustefnu síðustu stjórna, a.m.k. í orði. Hún boðar minni háttar kjaraleiðréttingar, en einnig aukin álög á neyslu almennings. Hún boðar óbreytta utanríkisstefnu, en að öllum líkindum einnig aukna samvinnu við hitt risaveldið,

Verði "vinstri" stjórnin langlíf sem áhöld eru um, mun hún vissulega boða til grímulausari aðgerða gegn verkalýð og alþýðu, heldur en nú hefur komið fram, enda er það hlutverk hennar að þjóna auðvaldinu.

"Vinstri" stjórnin er engin valkostur; hún á aðeins skilið baráttu. Efling fjöldabaráttu og styrking hins kommúníska forystuafls er sá valkostur, sem alþýða Íslands hefur.

Framkvæmdarnefnd
miðstjórnar.

frh. af forsíðu

## Aukin vinnuþrælkun

á tvo vegu. Annaðhvort var þeim vísað til hinna fundanna og það þá látið fylgja með, að eiginlega væri kerfið svo flókið, að það væri ekki fyrir hvern sem er að skilja það, - eða verkafólkið sem bar fram spurningarnar var gert hlægilegt fyrir spurningar sínar. Gengu "verkalýðsforingjarnir" og einkum Þórunn Valdimarsdóttir, harðast fram í því síðarnefnda Einnig var upplýst á fundinum, að þar sem kerfið væri svona flókið, stæði til að velja úr hópi verkafólksins nokkra "bónustrúnaðarmenn" til að fara á námskeið og læra kerfið. Hafa þeir verið á þönum um allt land síðustu daga.

Var auðséð á fundarmönnum að fögnuður var heldur lítill yfir þessari nýju árás verkalýðsforingja og borgarembættismanna á kjör fólksins.

átti síðan að halda annan fund með starfsfólkinu og greiða atkvæði um kerfið. Þeim fundi var frestað til þriðjudags 19.sept. Er reiknað með að bónuskerfið verði samþykkt, þar sem "bónustrúnaðarmenn" eru því mjög meðmæltir.

Enginn vafi er á því að þetta er aukin kúgun á verkafólki. Ein af alvarlegustu afleiðingum þessa kerfis er stórlega versnandi andrúmsloft, aukið stress og samkeppni og samstaðan rokin út í veður og vind.

Áþjánum verðum við að berjast harðri baráttu. Hættum ekki fyrr en þetta íþyngjandi bónuskerfi hefur verið lagt niður

Fréttaritari.



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Kjötbúðin Borg:
# Níðst á starfsfólki

Þorbjörn Jóhannesson, eigandi Kjötbúðarinnar Borgar, er löngu frægur fyrir ýmissa hluta sakir. M.a. er meðferð hans á starfsfólki sínu alræmd. Brottrekstrar úr vinnu eru tíðir, skammir og svívirðingar um starfsfólk í áheyrn viðskiptavina eru algengar. Sá atburður gerðist fyrir nokkrum árum að Þorbjörn rak starfsmann sinn einn fyrir litlar sem engar sakir, fyrir fullri búð viðskiptavina. Maður þessi vildi ekki una því an þess að gera Þorbirni einhvern miska í staðinn. Kom hann því nokkrum dögum síðar vaðandi inn í búðina með þrjá dauða ketti, slengdi þeim á búðarborðið og sagði hressilega við Þorbjörn: "Heyrðu, ég kem svo með fleiri seinna!" Þetta var á annatíma og búðin full.

En allir hafa ekki slíka möguleika til að svara fyrir sig, síst af öllu þeir sem eiga afkomu sína undir því að vinna fyrir þennan mann. Flest starfsfólk hans er í þannig aðstöðu, að það á um fátt annað að velja. Má t.d. nefna að meðalaldur þess er yfir 60 ár, nær allt konur.

### MATARTÍMI DREGINN AF EFTIRVINNU

Starfsfólk Þorbjarnar hefur hálftíma í mat. Mjög hart er gengið eftir því að fólk sitji ekki lengur. Hefur Þorbjörn fyrir vana að sýna sig með ræskingum og pústri svona þrem mínútum áður en matartíma lýkur. En slíkt er svo sem ekkert einsdæmi meðal atvinnurekenda. Hitt er óvenjulegra og harkalegra, að matartíminn er dreginn frá þeirri vinnu, sem síðast er unnin að deginum. Fer Þorbjörn þannig að að vinni fólk til dæmis til kl. 6 og ætti því að fá reiknaða 2 tíma í eftirvinnu, skrifar hann að það hafi unnið til kl. hálf sex. Með þessu móti tekst honum að draga hálftímann frá eftirvinnunni. Þetta er að sjálfsögðu ekki í samræmi við samninga Verslunarmannafélags Reykjavíkur, en Þorbjörn og Guðmundur H.Garðarson, form. Verslunarmannafélagsins, eru nú ágætis vinir. Þeir eru báðir í Sjálfstæðisflokknum.

### ENGAR AFLEYSINGAR Í SUMARFRÍUM.

Eins og öðru fólki, veitir starfsfólki Kjötbúðarinnar B Borgar ekkert af því að fá sumarfrí. En á slíkt þorir varla nokkur að minnast, því að Þorbjörn telur af og frá að hann hafi efni á að ráða fólk í afleysingar. Fari einhver í sumarfrí, bætist aðeins vinna þeirra á þá sem eftir eru. Slíkt fyrirkomulag er auðvitað argasta kúgun á verkafólkinu.

### "FRÍÐINDI" AFNUMIN VEGNA BLANKHEITA

Þær konur sem vinna í vatni allan daginn, svo sem við uppvask, sviðaþvott o.þ.h., hafa hingað til fengið sér að kostnaðarlausu hanska til að hlífa höndunum. Þetta eru að sjálfsögðu engin sérstök fríðindi, og flestum atvinnurekendum mundi varla detta í hug að bjóða starfsfólki sínu upp á annað. En fyrir skömmu kom Þorbjörn að máli við "fólkið sitt" og tilkynnti þeim að héðan í frá yrði það sjálft að standa undir slíkum kostnaði, hann hefði bara ekki efni á því. Hanskar væru orðnir svo dýrir!

Annað svipað dæmi er að hingað til hefur starfsfólkið mátt nota smjör með matnum sínum, ofan á brauð o.þ.h. En því miður. Blankheit Þorbjarnar voru orðin svo mikil að héðan í frá yrði blessað fólkið hans að láta sér nægja Sólblóma. Það var víst líka talsvert hollara, eftir því sem læknar segðu!

En það verður að láta Þorbjörn njóta sannmælis. En hefur hann ekki afnumið þau "fríðindi" starfsfólksins að mega taka með sér heim ónotaðan mat, s.s. gamalt álegg, beyglaðar niðursuðudósir og fleira þess háttar, sem annars yrði fleygt. Undrast margir hjartagæsku hins holdmikla manns.

Athugull viðskiptavinur.

## Kennarar við MS:
# Gegn „vísitöluþakinu"

Kennarar við Menntaskólann við Sund héldu fund 7. sept. og ályktuðu þá m.a. um kjaramál. Þar var mótmælt þeirri ráðstöfun ríkisstjórnarinnar að rýra kaupmátt launa hærri en 233 þús. kr. á mánuði með því að greiða skertar vísitölubætur á laun frá 1.sept. að telja. Þá var mótmælt þeirri stefnu að framlengja gildandi kjarasamninga um eitt ár án grunnkaupshækkana. Ennfremur var sett fram skýlaus krafa um að fullar verðbætur séu greiddar í samræmi við raunhæfa vísitölu og að samningsréttur kjarasamtakanna sé ekki skertur með aðgerðum ríkisvaldsins. Fundurinn beindi að lokum eftirfarandi tilmælum og kröfum til launamálaráðs BHM og til ríkisvaldsins:

– Að kjarasamningar verði ekki framlengdir óbreyttir, vísitöluþakið þegar afnumið og verðbætur greiddar út samningstímann skv. gildandi kjarasamningum.

– Að nýir kjarasamningar feli í sér fullar verðbætur á laun skv. vísitölu framfærslukostnaðar og verulega grunnkaupshækkun.

### NEI, ÞETTA MÁ EKKI!

Framangreindar kröfur leggjast gegn efnahagsstefnu ríkisstjórnarinnar í veigamiklum málum og óskandi er að fleiri félagar og félagasamtök í BHM og BSRB taki sig til og feti sömu braut. En ályktanir eru aðeins upphafið. Þeim verður að fylgja eftir með aðgerðum og fleiri samþykktum gegn kreppuráðstöfunum ríkisvaldsins, sem eru nú mótaðar öðru fremur af hinum fölsku "verkalýðsflokkum".

Athyglisvert er að líta á innihald hluta kjaramálaályktunar kennara við MS, en umræddur hluti var felldur með 9 atkv. gegn 6. Þorri kennara sat hjá og tók ekki þátt í deilum um hann. Innihald textans var sérstakur þyrnir í augum framámanna úr Alþýðubandalaginu í kennaraliðinu. Þar var nefnilega vegið að "láglaunastefnu" núverandi verkalýðsforystu. Tillögubrotið sem fellt var er hér birt orðrétt, en aðrir liðir tillögunnar hlutu einróma stuðning.

"Við teljum allsendis ókleyft fyrir aðila ríkisvaldsins eða forystu kjarasamtakanna að meta og skilgreina hvað séu há laun og hvað lág laun. Umrætt vísitöluþak við 233 þús. kr. laun er mjög skaðlegt stórum hópum launafólks. Þetta sést glöggt á því að framfærslukostnaður fjögurra manna fjölskyldu skv. vísitölu framfærslukostnaðar, sem er ekki notuð nú til verðbótagreiðslu, nálgast 300 þús. kr. á mánuði".

(Fréttaritari)

# Lækkun lægstu launa

Nú eru smátt og smátt að koma í ljós ýmsar afleiðingar bráðabirgðalaganna um kjaramál. Þær ráðstafanir sem ríkisstórnin greip til áttu að sögn að koma "þeim lægstlaunuðu" best en hálaunamenn og atvinnurekendur áttu að fá að greiða sinn skerf til að "leysa efnahagsvandann".

Opinberir starfsmenn í lægstu launaflokkunum (þ.e. neðan við 10.launaflokk) hafa nú þegar rekist á það að því fór fjarri að umhyggja fyrir þeirra hag hafi ráðið gerðum nýju stjórnarinnar. Nú er komið í ljós að vegna aðgerðanna verða þeir sennilega að greiða ríkinu til baka hluta af septemberlaunum sínum.

Flestir opinberir starfsmenn fá laun sín greidd fyrirfram þ.e. septemberlaunin voru greidd út 1.sept. Þar sem ráðstafanirnar voru svo seint á ferðinni var búið að reikna út laun þeirra og borga þeim út skv. gömlu lögunum og vísitölunni.

Lægstu launaflokkarnir í BSRB höfðu þegar fengið viðurkenndar fullar vísitölubætur á launin og það eina sem lögin gerðu var að lækka þessar bætur vegna afnáms söluskatts á matvælum (en söluskattur er inni í vísitölunni) og hins vegar vegna aukinnar niðurgreiðslu á landbúnaðarvörum. Þess vegna kom í ljós er farið var að athuga málið að láglaunafólkið í BSRB hefði fengið of mikið kaup(!)

Tilboð ríkisstjórnarinnar til launafólks er óneitanlega gott: "Í staðinn fyrir söluskatt á matvörum sem er inni í vísitölunni og veldur því hækkun á launum á þriggja mánaða fresti í kjölfar verðhækkanna fáið þið aukatekjuskatt, sem ekki hefur áhrif á vísitöluna. Og auk þess megið þið ( með sköttum til ríkisins) greiða niður landbúnaðarvörur til þess að hækkanir á þeim verði ekki til þess að kaupið ykkar hækki."

– Er nema von að þeir einu sem kvarta nú og kveina um álögur séu atvinnurekendur?

frh. af forsíðu

að baki slíkum boðum. Ég ákvað að senda ykkur línu um þetta mál þar sem Verkalýðsblaðið er eina blaðið sem fjallað hefur um hlutverk einokunarauðhringjanna.

Hvað liggur að baki velgjörningi þeim, sem forstjórunum er sýndur ?

Eins og alkunna er hótuðu hinir svokölluðu "eigendur" frystihúsanna að loka þeim öllum frá og með 1. sept. ef ríkisvaldið tryggði þeim ekki lágmarksgróða. Að baki hótununum lá örlítill sannleikur hvað varðar rekstrarafkomu nokkurra frystihúsa, en þegar á heildina er litið var hér um að ræða fyrirlitlegt herbragð einokunarauðvaldsins til sóknar í enn meiri gróða, sem einungis fæst með því að arðræna alþýðu þessa lands.

Stærstu einokunarhringirnir hér á landi eru fjórir. SÍS, Sölumiðstöð Hraðfrystihúsanna (SH), Flugleiðir og Eimskip. Þessi fyrirtæki bera ægishjálm yfir íslensku efnahagslífi í krafti stærðar og fjárhagsstyrkleika og teygja klær sínar yfir á flest svið þjóðlífsins. Önnur íslensk fyrirtæki, sem ekki eru beint eða óbeint á vegum risanna fjögurra,eru smápeð í samanburði við styrk þeirra og pólitískt vald. Það sem einkennir þessa fjóra risa fram yfir þeirra einokunaraðstöðu í íslensku efnahagslífi, er sú staðreynd að allir risarnir fjórir miða tekjur sínar að langmestu leyti við erlendan gjaldeyri, þ.e.a.s. þeir selja vörur sínar og þjónustu fyrir erlendan gjaldeyri, en langstærsti hluti launakostnaðar þessara fyrirtækja miðast við íslensku krónuna og íslenskt kaupgjald á hverjum tíma. Gengisfelling íslensku krónunnar um 20% gagnvart erlendum gjaldeyri, þýðir því í reynd milli 10-20% lækkun á launakostnaði þessara fyrirtækja á einu bretti. Geri aðrir betur.

Öll frystihús og þar með öll útgerð í landinu er í höndum einokunarhringanna beint eða ábeint. Einokunarauðvaldið hefur ávallt notað útgerðina eða fiskvinnsluna til að knýja fram gengisfellingar þegar þeim hefur hentað og ekki er skirrst við að stofna atvinnu þúsunda verkafólks og sjómanna í hættu til að ná sínum málum fram á pólitíska sviðinu.

Hinir svokölluðu "frystihúsaeigendur" eða forstjórar þeirra gegndu mikilvægu hlutverki fyrir einokunarauðvaldið í síðustu árásum þess á vinnandi alþýðu þessa lands, með því að spila eitt af aðalhlutverkum í sjónarspili þeirra. Með góðri hjálp borgaralegu stjórnmálamannanna í núverandi ríkisstjórnar var gerð 15% gengisfelling og gróði auðhringanna aukinn og tryggður. Engin furða þó forstjórunum sé ríkulega launað eftir vel unnin störf í þágu einokunarauðvaldsins. En hver borgar brúsann í raun og veru ? Vinnandi alþýða þessa lands.

Með baráttukveðju

Áskrifandi

# Til áskrifenda

Um þessar mundir geta þeir áskrifendur á Stór-Reykjavíkursvæðinu,sem ekki hafa greitt áskrift að Verkalýðsblaðinu, átt von á rukkara í heimsókn. Hvetjum við áskrifendur um leið og þei greiða áskriftina, að láta álit sitt á blaðinu í ljós. T.d. leggja mat á hvort blaðið sé á réttri leið, hvað geti farið betur o.s.fr. Öll gagnrýni á blaðið er vel þegin og nauðsynlegur þáttur til þess að blaðið þróist áfram í jákvæða átt.

Áskrifendur erlendis eru hvattir til að senda áskriftargjaldið heim sem fyrst. Hækka varð gjaldið upp í 5500 kr. til áskrifenda erlendis, því póstkostnaður hefur hækkað mikið frá áramótum. Þeir áskrifendur sem ekki verða búnir að greiða innan mánaðar verða teknir af skrá.

Eflum fjárhag Verkalýðsblaðsins – greiðum áskriftina atrax.

Áskrift greiðist inn á póstgíró 12200-9 Reykjavík.

Framhald af baksíðu

# landsráðstefna

ræður innan samtakanna verið litlar sem engar. Þessu ástandi verður að breyta. Kröfur samtakanna geta aðeins náðst fram með öflugri fjöldabaráttu.

Verkalýðsblaðið vill því skora á alla herstöðvaandstæðinga að kynna sér vel þær tillögur sem liggja fyrir landsráðstefnunni í okt, og skrá sig til þátttöku í störfum hennar.

Greinaflokkur um Kína

# Stéttabaráttan heldur áfram í sósíalismanum

Í stuttu máli þýðir sósíalíska byltingin að meirihlutinn undirokar minnihlutann í stað þess sem er fyrir sósíalísku byltinguna að minnihlutinn undirokar meirihlutann. Við sósíalísku byltinguna er efnahagsgrundvellinum breytt, þannig að hag- og framleiðslukerfið tekur mið af þörfum alþýðunnar í stað gróða auðherranna áður. Samfélagsleg þróun stefnir að ákveðnu markmiði, þ.e. algerri útrýmingu efnahagslegs og félagslegs misræmis og stéttlausu samfélagi kommúnismans. En þessi þróun á sér enga beina braut, heldur er leiðin mörkuð krókum og torfærum. Þó svo að alþýðan hafi hönd um þj´ þjóðfélagslegu völdin í sósíalismanum,þá er ekki þar með sagt að stéttabaráttan sé úr sögunni. Því er þannig varið og það hefur reynslan sýnt, að stéttabaráttan færist í aukana um leið og hún tekur á sig mynd. Borgaralegar hugmyndir hafa enn sterk ítök og ósk hinnar sigruðu borgarastéttar um að ná völdunum á ný er sterk og knýr hana til að beita örþrifaráðum.

## TVÆR STEFNUR

Í auðvaldssamfélagi eins og því íslenska berjast tvær stefnur, sú borgaralega og sú verkalýðssinnaða, marxlenínisminn og kenning Mao Tsetungs. Vitandi vits eða óafvitandi fylgjum við í aðalatriðum annarri hvorri stefnunni í öllum gerðum okkar. Þessu er líka svona háttað í sósíalíska samfélaginu í Kína.

Innan Kommúnistaflokks Kína og í öllu samfélaginu hefur aftur og aftur risið mikil barátta, sem skipt hefur sköpum fyrir þróun sósíalismans í Kína. Með því að læra af reynslunni og treysta á leiðsögn frumkvöðla marxismans hefur alþýðufjöldanum í Kína undir forystu Kommúnistaflokksins tekist að leiða hverja baráttuna af annarri til sigurs. Nægir hér að benda á sigrana yfir ranghugmyndum og fölsunum Líú Sjaó-sí, Lín Píaó og nú síðast "fjórmenningaklíkunnar" á marxismanum.

Í grein sinni "Um andstæðurnar meðal fólksins og hvernig ber að snúast við þeim" frá árinu 1957 sagði Mao Tsetung:

"Það mun líða talsvert langur tími áður en baráttan á hugmyndasviðinu milli sósíalisma og auðvaldsskipulags er að fullu til lykta leidd í landi voru. Ástæðan er sú, að áhrif borgarastéttarinnar og menntamanna úr gamla þjóðfélaginu og þá jafnframt stéttarhugmyndir þeirra munu haldast í landi voru enn um langt skeið. Það mun leiða til hinna alvarlegustu mistaka að skilja þetta ekki til fulls eða skilja það alls ekki, og nauðsyn þess að heyja baráttu á hugmyndasviðinu yrði enginn gaumur gefinn."

Þessi atriði eru kínverskri alþýðu ljós og hún gengur til verka með því hugarfari að efla stéttabaráttuna til þess að framfylgja eflingu framleiðslunnar. Öll mistök, smá og stór eru krufin niður í kjölinn til þess að komast fyrir um orsakir þeirra og aldrei er lagt inn á nýjar brautir án þess að alþýðufjöldinn sé orðinn fullkomlega meðvitaður um forsendur og markmið þess sem unnið er að.

## TVEGGJA STEFNU BARÁTTA ER HARÐVÍTUG STÉTTABARÁTTA.

Barátta tveggja stefna á sér stað innan Kommúnistaflokksins og í gervöllu þjóðfélaginu. Þessi barátta er eðlileg og á sér sögulegar forsendur og það mun taka langan tíma að útrýma forsendum stéttabaráttunnar þar sem það þýðir í raun algera




útrýmingu stéttanna. Á skeiði sósíalismans munu því borgaraleg öfl alltaf berjast með oddi og egg fyrir því að koma hugmyndum sínum á framfæri og til valda í þjóðfélaginu. Mao Tsetung sagði í sömu grein og áður er nefnd:

"Borgarastéttin og smáborgarastéttin vilja gefa hugmyndum sínum útrás. Hjá því verður ekki komist. Með mikilli þrákelkni hljóta þær að halda áfram að láta í ljós skoðanir sínar á pólitískum og hugmyndalegum vandamálum á allan hugsanlegan hátt. Annars er ekki að vænta að þeim. Vér megum ekki nota þvingunaraðferðir til að koma í veg fyrir að þær láti skoðanir sínar í ljós. Vér eigum að leyfa þeim það, en jafnframt eigum vér að rökræða við þetta fólk og gagnrýna það, eins og efni standa til."

Í Kína hafa auðvaldssinnar og falsmarxistar allskonar fengið gott ráðrúm bæði innan Kommúnistaflokksins og hvarvetna í þjóðfélaginu til að koma skoðunum sínum á framfæri. Það er barist gegn þeim með því að rökræða við þá og gagnrýna þá. Í sumum tilfellum hafa þessir andstæðingar sósíalismans náð að skipuleggja í kring um sig lið fylgismanna og hafa þeir þá haft skaðvænleg áhrif á þróunina og uppbygginu sósíalismans. En svo lengi sem hugmyndir þeirra eru ekki kyrfilega afhjúpaðar meðal flokksfélaganna og alls alþýðufjöldans fá þeir að leika lausum hala. Þegar stefna þeirra hefur svo verið borin ofurliði og innihald hennar og skemmdaverkaeðli starfs þeirra er alþýðufjöldanum ljós mega þeir sín lítils og þeir verða sviftir öllum áhrifum.

## TVÍÞÆTT EÐLI TVEGGJA STEFNU BARÁTTUNNAR

Það hefur sýnt sig í Kína að í hvert sinn sem sigur hefur unnist á hættulegum fjandmönnum sósíalísku uppbyggingarinnar, þá hefur uppbyggingin tekið stór stökk fram á við. Í harðvítugri baráttu gegn stéttaróvininum vinnast ekki aðeins sigrar á þeim heldur líka aflast dýrmæt reynsla. Þessi reynsla er ekki einangruð við fáa forystumenn í Kommúnistaflokknum, heldur er hún reynsla sem alþýðufjöldinn allur á, vegna þess að hún er árangur af starfi hans undir forystu Kommúnistaflokksins. Tveggjastefnubaráttan færir alþýðuna skrefi nær lokatakmarkinu með sigrunum yfir stéttaróvinunum og hún eykur vitund hennar.

## BARÁTTAN GEGN "FJÓRMENNINGAKLÍKUNNI".

"Fjórmenningaklíkan" er klíka þeirra Wang Hung-wen, Chang Chun-chiao, Chiang Ching og Yao Wen-yuan. Öll voru þau í leiðandi störfum í Kommúnistaflokknum og ríkisvaldinu. Úr valdastöðum sínum leiddu þau mikilvæga þætti kínverska þjóðlífsins. Völd þeirra náðu til yfirráða yfir fjölmiðlun og útgáfustarfsemi og lista og bókmennta. Þá höfðu þau mikil ítök í verkalýðshreyfingunni á mörgum mikilvægum stöðum og svo í menntamálum. Á skipulagðan hátt byggðu þau upp eigið valdakerfi og eigin "flokk" innan Kommúnistaflokksins. Þetta valdakerfi notuðu þau til að koma hugmyndum sínum á framfæri og til að breyta stefnunni á mörgum sviðum. Sem dæmi um áhrif "fjórmenningaklíkunnar" og skemmdarverk má nefna að hún stóð í vegi fyrir áframhaldandi útgáfu á ritverkum Mao Tsetungs og hún takmarkaði útgáfu á ritverkum frumkvöðlanna allra á kínversku.

Í bókmenntum og listum

# Ávarp Sigurðar Jóns Ólafssonar 21. ágúst

# „Verkalýðsfélögin málpípa fasistanna"

Á baráttufundi 21.ágústhreyfingarinnar í Lindarbæ flutti Sigurður Jón Ólafsson ávarp. Við birtum það hér í heild:

Fyrri hluta ársins 197o átti ég þess kost að dveljast um nokkurt skeið í höfuðborg Tékkóslóvakíu, Prag. Þetta var aðeins hálfu öðru ári eftir innrás herja Varsjárbandalagsríkjanna í Tékkóslóvakíu undir forystu sovéskra heimsvaldasinna og atburðirnir því mörgum ennþá í fersku minni. Þarna kynntist ég svolítið viðhorfum tékkneskrar alþýðu, einkum og sér í lagi með því að dveljast á bjórkrám, en þangað vandi fólk komur sínar að afloknum vinnudegi. Þegar uppgötvaðist að þarna var útlendingur á ferðalagi var fólk óðfúst að láta í ljós álit sitt á ástandinu í landinu og einlæga andúð sína á Sovétríkjunum.

Tvennt varð mér ljóst af þessum stuttu kynnum mínum við óbreytt alþýðufólk í



Tékkóslóvakíu; annars vegar að það mun aldrei takast að kúga það til hlýðni, hins vegar að það krefst skilnings á því þjóðfélagsvandamáli, sem það á við að etja og samstöðu allra er vilja berjast gegn sameiginlegum óvini.

Tíu ár eru nú liðin síðan innrás sovéska hersins átti sér stað í Tékkóslóvakíu. Enn er sovéskur her í landinu, enn ríkir þar fasismi af grimmustu tegund, enn er reynt að brjóta sérhverja andstöðu á bak aftur. Hvers konar lýðréttindi hafa verið fótum troðin af heimsvaldasinnunum í Kreml og leppum þeirra í Austur-Evrópuríkjunum. Skoðanafrelsi og félaga-og fundarfrelsi er virt að vettugi og verkalýðsfélögin eru ekkert annað en málpípa þessara fasista.

En þrátt fyrir hina grimmustu kúgun af hálfu sovéskra yfirvalda og leppa þeirra vex baráttunni gegn fasismanum stöðugt fiskur um hrygg. Í fyrra var mynduð Mannréttindahreyfingin ´77 eða Charta ´77 í Tékkóslóvakíu sem samanstendur af verkamönnum og menntamönnum og berst fyrir almennum lýðréttindum og gegn fasisma. Þessa hreyfingu ber okkur að styðja með ráðum og dáð. Og okkur er ennþá í fersku minni hetjuleg barátta pólsks verkalýðs gegn kjaraskerðingaráformum yfirstéttarinnar þar í landi.

Alþýðan í löndum Austur-Evrópu býr við áratuga reynslu harðrar stéttabaráttu og hún á sér sterkar baráttuhefðir. Fyrr eða síðar mun hún því varpa af sér fjötrum ófrelsis og kúgunar og á ný endurreisa það lýðræði, sem hún sjálf hafði komið á laggirnar.

Úr því ég hef nú minnst stúttlega á skoðanakúgunina í verkalýðsfélögum Austur-Evrópulandanna og það ófrelsi, sem verkalýður þessara landa á við að búa, kemur manni ósjálfrátt í hug hin nánu samskipti Alþýðusambands Íslands og Alþýðusambands Sovétríkjanna. Í þessu stutta ávarpi skal ekki farið nánar út í það að skilgreina pólitískar forsendur slíks vináttu sambands, en eitt er víst, að ýmsir hérlendir verkalýðsleiðtogar hafa stundum lagt leið sína til Sovétríkjanna í svonefndar kynnisferðir og hafa þær síðan verið endurgoldnar. Má í því sambandi minna á, að á síðasta þingi Alþýðusambands Íslands voru staddir tveir fulltrúar frá Alþýðusambandi Sovétríkjanna og jafnmargir frá hliðstæðu sambandi í Austur-Þýskalandi. Mér vitanlega hefur hvorki ASÍ né nokkurt verkalýðsfélag hér á landi sent frá sér mótmælaályktun varðandi framferði sovéskra heimsvaldasinna heima fyrir eða erlendis, né hvatt íslenskan verkalýð til baráttu gegn útþenslustefnu Sovétríkjanna, sem í dag er einn helsti ógnvaldurinn við heimsfriðinn. Mér er ekki heldur kunnugt um hvers konar kennslu íslenskir verkalýðsleiðtogar hafa hlotið austur þar, en hitt er staðreynd, að lýðræðið í verkalýðshreyfingunni á Íslandi í dag er vægast sagt mjög ábótavant, þó varla sé það í jafnmiklum mæli og í Sovétríkjunum og leppríkjum þeirra.

Að endingu þetta: Baráttan gegn heimsvalda- og árásastefnu Sovétríkjanna hvar sem hún birtist verður ekki sundur skilin frá baráttunni gegn sams konar stefnu Bandaríkja Norður-Ameríku. Innbyrðis togstreita þessara ríkja og eftirsókn í nýja markaði og nýlendur er helsta ógnunin við heimsfriðinn í dag. Mikilvægasti stuðningurinn, sem við getum veitt tékkneskri alþýðu í baráttu hennar gegn fasisma Sovétríkjanna er að berjast til þrautar fyrir því, að Ísland segi sig úr Nató og bandaríska herliðið hverfi brott af Keflavíkurflugvelli.

beitti "fjórmenningaklíkan" sér fyrir því að erlendar bókmenntir væru bannaðar og bannað var að leika vestræna tónlist t.d. Beethoven Í menntunarmálum bannaði "fjórmenningaklíkan" alla fræðslu sem byggði á erlendri þekkingu, t.d. tækniþekkingu og hún bannaði innflutning á erlendri tækni. Á sama tíma og "fjórmenningaklíkan" hvatti alþýðuna til að stunda byltinguna af ofurkappi og láta framleiðsluna ekki taka frá sér byltingareldmóð, þá lifði "klíkan" sjálf í vellystingum. Margar ráðstafanir "fjórmenningaklíkunnar" leiddu til þess að framleiðslan fór minnkandi og jaðraði við hungur á mörgum stöðum. Hraðfara uppbygging sósíalismans í Kína varð að algerri ringulreið. "Fjórmenningaklíkan" boðaði stefnu um að hraðfara uppbygging þýddi í raun endurreisn auðvaldsskipulagsins, hún sagði "Við viljum heldur hægfara sósíalíska járnbrautalest en hraðfara auðvaldslest".

Afleiðingarnar af stefnu "fjórmenningaklíkunnar" létu ekki bíða eftir sér. Sú uppljómun í byltingarsinnuðum alþýðulistum, sem fylgdi í kjölfar byltingarstríðsins og sósíalísku byltingarinnar í Kína var myrkvuð. Aðeins örfá bókmenntaverk og leikhúsaverk voru viðurkennd sem þóknanleg. Útgáfa á ljóðum Maós var fölsuð, en ljóð Maos hafa mikið pólitískt gildi. Menntun staðnaði og tæknivæðing iðnaðar og landbúnaðar dróst. Framleiðsluaukning varð að hraðminnkandi framleiðslu. Allskonar spilling svo sem fjárdráttur og lúxuslíf fór að tíðkast í sumum hópum leiðtoga verksmiðjanna. Áhrifin af stefnu "fjórmenningaklíkunnar" náðu til allra þátta samfélagsins og til utanríkissamskipta Kína.

Baráttan gegn "fjórmenningaklíkunni" er ellefta tveggja stefnubarátta í Kommúnistaflokki Kína og líka sú mesta og víðtækasta. Enda þótt marx-lenínisminn og kenningar Mao Tsetungs hafi alltaf haft yfirhöndina og ráðið ferðinni, þá olli gagnbyltingar tilraun "fjórmenningaklíkunnar" mjög miklu tjóni. Og þó svo að stefna "fjórmenningaklíkunnar" ætti sér aldrei meirihluta að baki í Kommúnistaflokknum eða miðstjórn hans þá fékk hún að leika lausum hala þangað til að hún var kyrfilega afhjúpuð, sem gagnbyltingarstefna, af alþýðunni um allt landið. "Fjórmenningaklíkan" var ekki stöðvuð í skemmdarverknaði sínum með ólýðræðislegri valdbeitingu , heldur með beitingu rökræðna og gagnrýni í anda kenninga Mao Tsetungs formans. Það er ekki kommúnistum sæmandi að beita röngum aðferðum til að koma í veg fyrir eða hindra pólitíska baráttu, þó svo að það geti valdið óskaplegu tjóni að rangar hugmyndir fái að leika lausum hala um tíma.

BARÁTTAN HELDUR ÁFRAM

Baráttan gegn falshugmyndum "fjórmenningaklíkunnar" heldur áfram í Kína. Sjálft valdakerfi "fjórmenninganna" hefur verið brotið á bak aftur og stefna þeirra afhjúpuð í öllum höfuðatriðum. En gagnrýnisherferðinni á stefnu "fjórmenninganna" er ekki lokið. Á mörgum sviðum er enn verið að byggja upp það sem brotið var niður. Í gagnrýnisherferðinni er fólgin menntun í marx-lenínismanum og kenningum Mao Tsetungs, fyrir þá sem fylgdu "fjórmenningaklíkunni" að málum. Reynslan og niðurstöður þessarar elleftu tveggjastefnu baráttu í Kommúnistaflokknum er dýrmæt leiðbeining um það hvernig hægt sé að vinna enn stærri sigra á endurskoðunarsinnum og gagnbyltingarsinnum

# Lamast Háskóli Íslands í haust ?

Samtök stundakennara hafa sent félagsmönnum sínum bréf, þar sem fram kemur að verði háskólinn og ríkisvaldið ekki við kröfum félagsins um bætt kjör og atvinnuöryggi, sé útlit fyrir verkfall stundakennara frá og með upphafi kennslu.

Samtök stundakennara hafa haft uppi kröfugerð sína allt frá því í febrúar sl. án árangurs. Hafa yfirvöld háskólans og ríkisvaldsins gengið svo langt að neita að ræða við félagið um kjör stundakennara. Í júní birti menntamálaráðuneytið hins vegar á eigin spýtur nýjar reglur um greiðslur fyrir stundakennslu við Háskóla Íslands, og var þar í engu komið til móts við stundakennara. Félag stundakennara sendi þá ráðuneytinu tilboð um samningaviðræður, en því hefur í engu verið svarað. Þann 25. sept. nk. verður haldinn félagsfundur í Samtökum stundakennara, þar sem afstaða verður tekin til þess hvort stundakennarar neiti að hefja störf á haustmisseri. Verði samningaviðræður komnar í gang, er ætlunin að ræða þær á fundinum og taka afstöðu til þeirra.

Um 300 af kennurum háskólans eru lausráðnir stundakennarar, sem búa við ákaflega mikið óöryggi í atvinnu og kjör þeirra eru að öðru leyti ekki góð.

Frh. af bls. 7
ÁRÁSIR ALBANA...

villur verðum við að skilja og draga af þeim lærdóma en ekki að þegja yfir þeim eða verja þær gegn betri vitund. Þess vegna styðjum við þá kröfu að Sovétríkin aflétti hernámi sínu á japönsku eyjunum.

FVA gagnrýndi afstöðu KFK bréflega og Maó lýsti yfir því að bréfinu yrði ekki svarað. Afstaða Maó var rétt því deilur um þetta atriði hefðu veikt einingu flokkanna gegn endurskoðunarstefnunni sem var mikilvægari en þessi ágreiningur. Albönsku leiðtogarnir gagnrýna Maó fyrir að svara ekki þó Sovétríkin hafi afhjúpað eðli sitt enn frekar síðan. Að þeir skuli nú endurtaka sömu afstöðu til landamæradeilnanna er ekki einungis villa heldur bein árás á Maó Tsetung en stuðningur við sósíalheimsvaldastefnuna.

# ARÐRÁN OG KREPPA 2. hluti

# Ísland - háþróað auðvaldsskipulag á stigi einokunar

Kreppan hér á Íslandi er að sjálfsögðu hluti almennu kreppunnar í heiminum. En kreppan hér á sér vissulega sín séreinkenni, sem eiga sér rætur í sértæku skipulagi íslenska auðvaldsins og sögulegri þróun þess. Þegar þessi séreinkenni eru skoðuð sést vel og staðfestist það sem EIK(m-l) hefur áður sagt um gerð íslenska auðvaldsskipulagsins.

ÞRÓUN AUÐSKIPULAGSINS Á ÍSLANDI.

Auðvaldsskipulagið á Íslandi varð til á meðan Ísland var ennþá nýlenda. Þetta skipulag bar stöðu landsins með sér. Erlendir auðhringar höfðu töglin og haldirnar í allri framleiðslu. Þjóðlegt auðvald var veikt, og hafði enga forystu um uppbyggingu og gerð skipulagsins. Framleiðslan var einvörðungu hráefnaframleiðsla, sem síðan var flutt af landi brott til fullvinnslu í verksmiðjum erlendra auðhringa. Þangað rann gróðinn. Kreppurnar eftir I.heimsstyrjöldina og sú mikla um 193o veiktu erlendu auðhringana. Gróðinn sem sóttur var til Íslands var látinn lönd og leið, þegar þeir þurftu að draga saman seglin. Jafnframt hafði þjóðlegt auðvald á Íslandi vaxið og náð talsverðum styrk. Á þriðja áratugnum sameinast þjóðlega auðvaldið um ríkisvaldið og nær yfirhöndinni. Eins og í flestum auðvaldslöndum, þar sem auðvaldsskipulagið hófst upp á rekstri margra smárra fyrirtækja, sem kepptu um markaðinn og þau stærri slógu þau minni út og urðu enn stærri þar til einokun var náð, þá hófst valdatími þjóðlegs íslensks auðvalds á einokun, sem það skipulagði í gegn um og með ríkisvaldinu. Sú einokun sem áður var á hendi fárra lendra auðhringja færðist í hendur íslenska auðvaldsins með því að það sameinaðist um ríkiseinokun og varð sjálfstætt vald. Þessari gerð skipulags hefur ekki verið breytt í grundvallaratriðum, þó svo að núna starfi á Íslandi einokunarauðhringar án formlegra tengsla við ríkisvaldið. Ríkisvaldið er enn sam fyrr samnefnari fyrir hagsmuni og pólitíska stöðu auðvaldsins í heild og einkum þó einokunarauðvaldsins. Það er í þessu ljósi sem við verðum að líta á kreppuna á Íslandi í dag.

HVAÐ HEFUR BREYST ?

Hefur það breyst að Ísland er fyrst of fremst hráefnaframleiðsluland ? Hefur það breyst að Ísland verður að flytja inn svo að segja öll framleiðslutæki? Nei, þetta hefur alls ekki breyst. Fullunnin vara til útflutnings er hverfandi lítil. Framleiðsla innanlands á framleiðslutækjum hefur vissulega aukist, en enn sem fyrr verður að flytja inn mestan hluta þeirra og miðað við framleiðsluna í heild líklega ekki minna en áður t.d. fyrir II.heimsstyrjöldina.

Það sem hefur breyst er það að nú eru það íslenskir auðhringar sem flytja hráefnin út og það til sinna dótturfyrirtækja, sem fullvinna þau. Dótturfyrirtækin eru ekki íslensk fyrirtæki, en það eru þau sem hirða stærsta gróðann, jafnvel allan.

Hér er um að ræða svo stóran hluta af heildarframleiðslumagni Íslands, svo sem framleiðsla bæði SÍS og SH í í fiski og rekstur Flugleiða, að ríkisvaldið getur ekki gengið framhjá þessu. Raunar er rétt að segja að ríkisvaldið hefur nú sem höfuðhlutverk að gæta hagsmuna þessara auðhringa í hvívetna. Það setur ríkisvaldið líka í sitt rétta stéttarlega umhverfi.

# Verðlaunakrossgáta

Hér að neðan birtist krossgáta sem Verkalýðsblaðinu barst frá einum lesanda sinna. Við þökkum höfundi fyrir þessa ágætu þraut, og hvetjum alla lesendur til að senda okkur slíkt efni til að hressa upp á og létta blaðið. Krossgátur, myndagátur, þrautir, brandarar, teikningar - allt er þetta vel þegið.

Ritnefnd hefur ákveðið að veita verðlaun fyrir eina rétta lausn neðangreindrar krossgátu, 5.000 króna úttekt úr Októberbókabúðinni. Sendið lausnir ykkar til Verkalýðsblaðsins, pósthólfi 5186, Reykjavík, fyrir 15. okt.nk.

Það skal tekið fram varðandi þessa krossgátu að ekki er greint á milli grannra og breiðra sérhljóða ( a-á, e-é i-í o.s.frv.).

| | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1 | | 2 | 3 | | ■ | 4 | 5 | 6 | | 7 |
| | ■ | 8 | | ■ | 9 | ■ | 10 | | ■ | |
| 11 | 12 | ■ | 13 | | | | | ■ | 14 | |
| 15 | | 16 | | ■ | | ■ | 17 | 18 | | |
| | ■ | | ■ | 19 | | 20 | ■ | | ■ | |
| ■ | 21 | | | | | | | | | ■ |
| 22 | ■ | | ■ | 23 | | | ■ | | ■ | 24 |
| 25 | 26 | | 27 | ■ | | ■ | 28 | | 29 | |
| 30 | | ■ | 31 | | | | | ■ | 32 | |
| | ■ | 33 | | ■ | | ■ | 34 | 35 | ■ | |
| 36 | | | | | ■ | 37 | | | | |

## Skýringar

LÁRÉTT:
1 Ógnar heimsfriði nú
4. Mun verkafólk bera úr býtum að lokum
8. Keyri
10. Íþróttafélag
11. Stalín gerði árið 1953
13. Bjarg
14 Tveir eins
15. Hvern og einn
17 Erlent einokunarfyrirtæki á Íslandi
19 Ekki beint
21 Bjó rússneskur verkalýður við fyrir byltinguna 1917
23 Eru fögru loforðin sem borgaraflokkarnir gefa fyrir kosningar
25 Það sem borgaraflokkarnir gera ekki við loforð sín
28 Húsdýr
30 Íþróttafélag á Akureyri
31 Þurfum við að vera duglegri við að gera við Verkalýðsblaðið
32 Einkennisstafir Reykjavíkurbáta
33 Forsetning
34 Líkamshluti
36 Þurfum að fá Verkalýðsblaðið...
37 Sú sem hefði mátt sýna sig meira á sumarbúðum Verkalýðsblaðsins í sumar

LÓÐRÉTT:
1 Þjóðarleiðtogi í Afríku
2 Helgidómur
3 Fá börn oft þegar þau gráta
5 Mætti - h
6 Þyngdareining
7 Það sem pólitískir bullukollar gera
9 Skapar auðinn
12 Til að binda óvininn með
14 Athuga
16 Rembist nýja ríkisstjórnin við að finna
18 Leiðrétta kennarar oft
19 Eldstæði
20 Púka
22 Réðust Sovétríkin inn í 21. ágúst 1968
24 Grjót (þf.)
26 Öðlast
27 Bjána
28 Viljum við ganga úr tafarlaust!
29 Forsetning
33 Borðaði
35 Framleitt við odýra orku á Íslandi



Lönd vilja sjálfstæði – þjóðir vilja frelsi – alþýðan vill byltingu

# Sósíalísk Kórea 30 ára

# Stórstígar efnahagslegar framfarir

Þann 9. september fagnaði Alþýðulýðveldið Kórea 30 ára afmæli sínu. Í sósíalismanum í Kóreu hafa orðið hraðstígar framfarir, undir leiðsögn Kim Il-sungs og Kóreanska verkamannaflokksins. Á alþjóðavettvangi gegnir Kórea vaxandi hlutverki í baráttunni gegn heimsvaldastefnunni, nýlendustefnu og ný-nýlendustefnu. Kórea er í hreyfingu óháðra ríkja, og á fundi utanríkisráðherra óháðra ríkja í Belgrad í sumar, barðist hún ötullega gegn öllum tilraunum til að kljúfa hreyfinguna. Í dag er Kóreu skipt í tvennt, Alþýðulýðveldið Kórea nær yfir norðurhlutann, en í suðri ríkja fasískir leppar bandarísku heimsvaldastefnunnar.

## BARÁTTAN FYRIR FRELSI OG SJÁLFSTÆÐI

Stofnun sjálfstæðs sósíalísks ríkis á Kóreuskaganum markaði sögulegt spor í baráttu alþýðu heimsins í annarri heimsstyrjöldinni. Kóreanska þjóðin hefur síðan varið þennan sigur með blóði sínu í harðri baráttu við bandarísku heimsvaldastefnuna.

Fyrir frelsun var Kórea nýlenda Japana, vanþróað landbúnaðarland. Í stríðinu gegn japönsku heimsvaldaseggjunum, stofnaði alþýða Kóreu hinar ýmsu föðurlandsfylkingar. Kóreanskir kommúnistar stofnuðu flokksher, sem tókst að afvopna Japani og taka völdin eftir uppgjöfina.

En samkvæmt ákvörðun stórveldanna, sem urðu sigurvegarar heimsstyrjaldarinnar, var Kóreu skipt upp, og Bandaríkin hertóku suður hluta landsins.

Eftir almennar kosningar um allt landið – í suður hlutanum undir barðri baráttu gegn bandarísku heimsvaldastefnunni – var haldið þjóðþing með 572 þátttakendum, bæði frá suður og norður hlutanum, í Pyongyang í september 1948. Á þjóðþinginu var Alþýðulýðveldið Kórea formlega stofnað, og er það eini lögmæti fulltrúi allrar kóreönsku þjóðarinnar.

## FYRSTA NAPALMSTRÍÐ SÖGUNNAR

Aðeins tveim árum eftir stofnun Alþýðulýðveldisins, þurfti kóreanska þjóðin að þola enn eitt árásar- og eyðileggingarstríðið. Bandaríkin ætluðu að brjóta hið unga ríki á bak aftur. Gífurlegur fjöldi hermanna með nýtísku vopn, þar á meðal sýklavopn og napalm, tók þátt í árásarstríðinu. En kóreönsk alþýða veitti bandarísku heimsvaldaseggjunum þung högg, og með aðstoð frá Alþýðulýðveldinu Kína(stofnað 1949), tókst henni að hrinda árásinni eftir þriggja ára stríð. Eyðilegging stríðsins var gífurleg og bandarískir sérfræðingar fullyrtu, að það tæki meira en 1oo ár að byggja upp á nýjan leik það sem stríðið hafði eyðilagt. Og enn var landið tvískipt.

## ALÞÝÐULÝÐVELDIÐ TEKUR STÓRSTÍGUM FRAMFÖRUM

Þrátt fyrir dóm bandarísku sérfræðinganna tókst þjóðinni að iðnvæða land sitt stig af stigi á aðeins 14 árum. Í ár tók í gildi sjö ára áætlun, sem miðar að ýmsum endurbótum á efnahagssviðinu, og betri hagnýtingu vísindanna, og að styrkja sjálfstæði landsins. Með þessari áætlun, mun lífskjörin batna verulega. Kóreanski verkamannaflokkurinn, undir forystu Kim Il-sungs forseta, hefur leitt þessa uppbyggingu, sem grundvallast á því að hin vinnandi alþýða sé driffjöður byltingarinnar og sósíalísku uppbyggingarinnar. Alþýðan verði að varðveita pólitískt sjálfstæði sitt, byggja upp efnahagskerfi, grundvallað á eigin hagsmunum og að vera reiðubúin að verja þjóð sína.

## SAMEINING LANDSINS

Sameining allrar Kóreu á nýjan leik er brýnt hagsmunamál fyrir kóreönsku þjóðina. Eins og fyrr segir, er stjórn Alþýðulýðveldisins hinn eini sanni fulltrúi þjóðarinnar og hefur forsetinn, Kim Il-sung lagt fram áætlun í fimm punktum til sameiningar norður og suður hlutans. Þessi áætlun byggir á þrem grundvallaratriðum:

1. Sjálfstæði – sameiningin er verkefni kóreönsku þjóðarinnar einnar og engin erlend öfl hafa rétt til að blanda sér inn í málið.
2. Friðsamleg sameining – uppræta verður hina hernaðarlegu spennu sem ríkir á kóreönsku hálfeynni.
3. Þjóðleg eining – sameiningin verður að eiga sér stað á g ndvelli hagsmuna allrar þjóðarinnar.



Kastró skammaði Kína í ræðu á Kúbumótinu

"Heimsmót æskunnar" var haldið með viðhöfn á Kúbu í sumar. Þar var heilmikið blaðrað um frið og framfarir, en hvergi farið dult með að höfuðmarkmiðið var aðeins eitt: að sannfæra þátttakendur og aðra um að augljós heimsvaldastefna Sovétríkjanna væri réttlætanleg og "í anda friðarins"!

# Kúbu - mótið:

# Áróður og gjálífi í fyrirrúmi

Frá Íslandi var hækju sovéska fasismans, Fylkingunni, boðið að senda lið, einnig skunduðu til Kúbu fulltrúar vináttusamtaka Íslands og Kúbu og "Baráttuhreyfingar gegn heimsvaldastefnu". Eftir heimkomuna hefur Þjóðviljinn birt sykursæta lofgerðarrullu um Kúbumótið og von er á meira skrifelsi um Kastró og Brésjnef í Neista þegar Fylkingin kemur úr sumarfríi í haust. Verkalýðsblaðinu hefur borist frá Bandaríkjunum blaðið The Call, en þar er m.a að finna viðtal við bandarískan þátttakanda í Kúbu-mótinu. Frásagnir hans eru talsvert á annan veg en t.d. það sem Róska Fylkingarmaður rausaði í Þjóðviljaviðtali. Hér verður getið nokkurra atriða sem koma fram í The Call.

1. Ráðist var af heift á Kína og Kampútseu við hvert tækifæri sem gafst á Kúbumótinu, en einnig á Sómalíu, Egyptaland, Zaire og Saudi-Arabíu (lönd sem snúist hafa gegn Sovétríkjunum). Þetta voru stimpluð "afturhaldsöfl".

2. Bandaríkjamaðurinn heimsótti verustað sovésku sendinefndarinnar á mótinu. Þar gat að líta þrjá bari, stór bílastæði, einkahöfn með 12 lystibátum, "Menningaratriði" þar sem m.a. komu fram fáklæddar konur o.s.frv. Sem sagt líf á borð við það sem greifar lifa í Las Vegas!

3. Margir spurðu um þátt Sovétríkjanna á stríðinu gegn Erítreu í Afríku, en fengu annað hvort engin svör eða einföld : "Erítrea nýtur stuðnings afturhaldsins" o.s.frv.

4. Nærri tveir þriðju hlutar þátttakenda voru frá Sovétríkjunum og Austur-Evrópu, þar af 6000 frá Sovétríkjunum. Meira að segja Kúbumenn sjálfir voru aðeins um 2000 á mótinu !

Fjölmargir komu fram sem hreinar málpípur heimsvaldastefnu Kremlverja og er finnskur þátttakandi sérstaklega nefndur.

5. Kórea, Sómalía og Kampútsea hunsuðu mótið og sendu engan fulltrúa. Kína sendi fulltrúa sendiráðsins í Havana á Kúbu, en dvöl hans var stutt vegna heiftarlegra árása Kastrós á Kína í ræðu.

## DRYKKJUSKAPUR OG GJÁLÍFI

Daglega voru farnar áætlunarferðir til strandar, á íþróttakappleiki eða annað. Á hverjum degi léku hljómsveitir, stanslaust var dansað og djammað, romm og bjór flæddi. Margir fengu engin svör við pólitískum ráðgátum önnur en afrit af stöðluðu friðargjammi Brésjnefs og Kastrós, en reynt var að hafa ofan af fyrir þeim sömu með gjálífi.

Í lok frásagnar sinnar segir Bandaríkjamaðurinn : "Við sérhvert tækifæri var sagt að óháðu ríkin ættu að ganga í bandalag með Sovétríkjunum og bandalagsríkjum þeirra. Búlgarskur þátttakandi talaði um að lönd þriðja heimsins gætu orðið sósíalísk einfaldlega með því að halla sér að Sovétríkjunum (!). Meðlimur í svokölluðum "Kommúnistaflokki" Kúbu sagði hreint út: "Kúba er óháð ríki aðeins í orði kveðnu. Við höfum kosið vináttutengsl við Sovétríkin og erum þeirra bandalagsríki."

# Til íslensks baráttufólks

# Krefjumst lausnar argentísks baráttufólks

Argentína hefur verið mikið í fréttum í sumar, sérstaklega vegna heimsmeistarakeppninar í fótbolta í júní og verkfalla hafnarverkamanna í Buenos Aires sem fylgdu í kjölfarið. Það ætti því ekki að fara fram hjá neinum, að í Argentínu ríkir stjórn sem treður á mannréttindum, ber niður verkföll og lætur "óæskilega menn hverfa", m.ö.o. fasismi. Stjórninni tókst ekki sem skildi að notfæra sér heimsmeistarakeppnina til þess að "sanna" fyrir umheiminum að allt væri með felldu í landinu, þrátt fyrir mikinn viðbúnað og handtökur.

Herforingjastjórnin í Argentínu virðist eiga sér sína málsvara hér á landi, því öðru hvoru birtast greinar í Morgunblaðinu sem ganga út á það að fegra ástandið, og kenna "öfgahópum til hægri og vinstri" um ólguna í landinu og mannahvörfin – stjórnin og hlaupatíkur hennar séu saklausar. Skemmst er að minnast ferðasögu Halldórs nokkurs Lárussonar í Mbl, þann 12. sept.

Nú í sumar hefur baráttan fyrir auknum lýðréttindum risið hátt. Stjórnin hefur brugðist hart við, og af þeim sökum hefur baráttufólk sem tekið hefur þátt í þessari lýðræðishreyfingu á ýmsan hátt horfið sporlaust. EIK(m-l) og Verkalýðsblaðinu hafa borist hvatningabréf þess efnis að hvetja til baráttu til stuðnings slíku fólki. Þetta fólk hefur horfið eftir að hafa tekið þátt í stuðningsstarfi með verkfallsmönnum í Buenos Aires og í kröfugöngum, sem krefjast framsals horfinna fjölskyldumeðlima. Höfnin í Buenos Aires, sú mikilvægasta í Argentínu, hefur logað í verkföllum allt frá lokum heimsmeistarakeppninnar.

Verkalýðsblaðið vill nú hvetja bæði einstaklinga og ýmis konar samtök, sem vilja leggja sitt af mörkum til stuðnings réttlátri baráttu argentínskrar alþýðu fyrir lýðréttindum, að krefjast þess að pólitískum föngum verði sleppt úr haldi. Þetta má gera bréflega (á ensku eða spænsku) stílað á argentínsku stjórnina. Aðgerð sem þessi getur haft mikið að segja sem þvingun á stjórnina og mun verða baráttu alþýðunnar mikill stuðningur.

# Ísrael harðlega fordæmt

# Ísland rauk á dyr!

Í ágúst var haldinn heimsráðstefna um kynþáttastefnu og kynþáttakúgun í Genf í Sviss. Nokkur Afríkuríki stóðu þar m.a. að tillögu að fordæmingu á samstarfi síonistaríkisins Ísraels við kynþáttastjórn hinnar suðlægu Afríku og einnig var í annarri grein gerð tillaga um fordæmingu á kynþáttakúgun Ísraelsmanna á Palestínumönnum. Báðar þessar fordæmingar voru samþykktar, sú fyrri með 65 atkvæðum gegn 18 og sú síðari með 67 gegn 18. Um það bil 2o lönd sátu hjá við atkvæðareiðslu, en fulltrúar 14 ríkja þeirra á meðal Íslands,Noregs og Danmerkur gengu á dyr fúlir í lund í mótmælaskyni við ályktunina!

Hvorki Bandaríkin né Ísrael tóku þátt í ráðstefnunni í mótmælaskyni við samþykkt allsherjarþings Sameinuðu þjóðanna frá 1975, en þar var síonisminn stimplaður sem ein grein á meiði kynþáttastefnu.

Mikill meirihluti þátttökuríkja á ráðstefnunni í Sviss stóðu að samþykkt um bindandi bann við efnahagslegum samskiptum við Suður-Afríku. 88 atkvæði voru með banninu, fjögur ríki voru á móti: Austurríki, Sviss, Finnland og Svíþjóð. Fulltrúar Norðurlandanna höfðu því afstöðu á ráðstefnunni sem þjónar kynþáttakúgun og fasisma og er fullkomlega fordæmanleg. Afstaða risaveldisins Bandaríkjanna er greinilega það sem vegið hefur þungt í afstöðu Norðurlandanna, auk beinna efnahagslegra hagsmuna auðherra á Norðurlöndum, sem eiga gróðahagsmuni að verja í Ísrael og Suður-Afríku.

# DEILUR Í HEIMSHREYFINGU MARX-LENÍNÍSTA

Í 15. og 16. tbl. VB voru greinar um deilur sem orðið hafa opinberar í heimshreyfingu marx-lenínista á síðustu mánuðum og árum. Lofað var frekari umfjöllun um málið. Utanríkisfulltrúi miðstjórnar EIK(m-l) hefur tekið saman alllangan pistil til skýringar á helstu atriðum sem ber að skoða varðandi ágreining þennan, og hefur ritstjórn ákveðið að birta pistilinn í þessu og næstu blöðum. Lesendur eru hvattir til að kynna sér þetta mikilvæga mál, en meira lesefni má ná sér í hjá Október-forlaginu á Óðinsgötu 3o í Rvík.

# Árásir Albana á leiðtoga Kína

## EFNAHAGSMÁLIN

Nú hafa Kínverjar neyðst til að hætta allri efnahags- og hernaðaraðstoð við Albaníu og kalla heim alla sérfræðinga sína þaðan. Um ástæður þessa segir m.a. í frétt frá kínversku fréttastofunni Hsinhua, að Albanir hafi uppi "algerlega tilhæfulausar ásakanir á kínverska sérfræðinga, þar sem staðhæft var, að þeir "stefndu að því af ásettu ráði að spilla efnahag Albaníu" og að Kína hafi "sett hindranir" fyrir aðstoð sína við Albaníu "þvert ofan í" samninga, "þannig valdið alvarlegu tjóni" á efnahag Albaníu og "spillt" landvörnum hennar. Þann 7. júní 1978 sendi kínverska utanríkisráðuneytið albönsku stjórninni svarorðsendingu, þar sem látið er í ljós von um skoðanaskipti með orðsendingum, þannig að.samstarfið geti haldið áfram. En ambassador Albaníu í Kína neitaði að taka við orðsendingunni eða leysa málin með viðræðum.

Við þessar aðstæður á kínverska stjórnin ekki annars kost en að stöðva aðstoð sína." (Fréttir frá Kína, nr. 12, 31. júlí 1978)

Okkur hafa nú borist viðbrögð albanskra leiðtoga við þessum aðgerðum Kínverja: "Bréf frá miðstjórn Flokks vinnunnar og ríkisstjórn Albaníu til miðstjórnar Kommúnistaflokks og ríkisstjórnar Kína", dagsett 29. júlí 1978. Verður það meginefni þessarar greinar.

Bréfið skiptist í tvo meginhluta og fjallar hinn fyrri um efnahagsaðstoð Kína við Albaníu og samskipti landanna almennt. Þess er ekki kostur að rekja nákvæmlega hér þá kúvendingu sem orðið hefur á afstöðu albanskra ráðamanna til aðstoðar Kínverja. Í stuttu máli eru Kínverjar sakaðir um að hafa notað aðstoðina til að hafa áhrif á stefnu Albaníu, viljað sjálfir ráða stefnunni í uppbyggingu landsins, tafið framkvæmdir og reyni nú að hreykja sér af hjálpinni til að dylja drottnunartilhneigingar sínar. Auk þess geri þeir allt of mikið úr þýðingu aðstoðarinnar fyrir efnahag Albaníu.

Ástæðan til þess, að Kínverjar birta opinberlega upplýsingar um aðstoðina við Albaníu, er eflaust sú að þeir vilja gera hreint fyrir sínum dyrum, sýna hve mikil aðstoðin var og að hún var veitt þrátt fyrir erfiðleika heimafyrir í Kína. Fullyrðingar albanskra leiðtoga um að þvinganir hafi fylgt aðstoðinni stangast á við allt sem vitað er um aðstoð Kína við önnur ríki og orð Albana sjálfra áður fyrr. Uppbyggingin í Albaníu er að sjálfsögðu árangur af baráttu og starfi alþýðu landsins og hefur kínversk aðstoð ekki haft þar úrslita þýðingu. En hún hafði samt sem áður mikla þýðingu. Það sést best á eftirfarandi orðum Envers Hoxha úr kosningaræðu í Tirana 3.okt. 1974:

"Sósíalísk samvinna okkar er þróuð eins og vera ber milli góðra félaga, af marx-lenínískri einlægni og skilningi. Við hjálpum hvor öðrum á öllum sviðum, á allan hátt og af öllu afli. Þessi aðstoð og samvinna hefur borið ríkulegan ávöxt fyrir land okkar og þjóð. Kína aðstoðar okkur ósparlega og af algerri ósérplægni við að þróa iðnaðinn, efla sósíalískan landbúnað, styrkja land okkar alhliða og auka velferð þjóðarinnar. Þessi veruleiki blasir við okkur dag hvern í hita- og vatnsafls stöðvum, verkstæðum og iðjuverum í dráttarvélum og járnbrautum, hann blasir við í samstiga þróun menningar, verslunar- og annarra samskipta til gagns fyrir báða aðila." (Our policiy is an open policy, the policy of proletarian principles, 2. útg. Tirana 1975, bls.3o-31)

Í bréfinu er mikið gert úr aðstoð Albana við Kínverja og víst mun kínversk alþýða vera þeirri albönsku þakklát fyrir pólitíska aðstoð hennar. En það er út í hött að jafna saman efnahags- og hernaðaraðstoð Kínverja og pólitískum stuðningi Albana þegar báðir börðust gegn sovéskri sósíalheimsvaldastefnu og nútíma endurskoðunarstefnu.

## AÐRAR ÁSAKANIR

Í öðrum hluta bréfsins rekja albanskir leiðtogar ágreiningsefni sín við Kínverja allt frá því fyrir 196o þó ýmis þessi atriði sýnist nýtilbúin. Eru hér upptalin 11 meginatriði og skal reynt að gera þeim skil þó fara verði fljótt yfir sögu.

1-2. Afstaðan til Sovét.

Því er haldið fram að Kínverjar hafi lengi gert sér tálvonir um sósíalismann í Sovétríkjunum eftir valdatöku Krúsjoffs. Þeir hafi ekki fyrr en 1963 viðurkennt raunverulegt eðli gagnbyltingar endurskoðunarsinna og þá tilneyddir af ytri aðstæðum, sérstaklega samningi Bretlands, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna um bann við kjarnorkutilraunum í andrúmsloftinu. Fyrst þá hafi þeir viðurkennt afstöðu Flokks vinnunnar í Albaníu (FVA). Hér er staðreyndum algerlega snúið á haus. Þegar 1956 skrifaði Maó Tsetung greinar þar sem hann gagnrýndi ýmislegt í uppbyggingu sósíalismans í Sovétríkjunum og A-Evrópu. (Sjá t.d.: Um andstöður meðal fólksins, Ritgerðir II, útg. Heimskringla, 1963:) Á árunum fram að 1963 birtu Kínverjar ýmislegt efni þar sem algerlega var gert upp við stefnu Krúsjoffs. Þessa greiningu hafa Albanir notað og þó þeir hafi skrifað margar mikilvægar greinar gegn endurskoðunarstefnunni, hafa þeir ekki gert eigin greiningu á orsökum endurskoðunarstefnunnar og hvernig auðvaldsþjóðfélagið í Sovétríkjunum virkar.

Þá er Sjú Enlæ sakaður um að hafa ekki varið FVA gegn árásum Krúsjoffs á 22. þingi kommúnistaflokks Sovétríkjanna. Í sögu FVA er þó öðru haldið fram! Tvísté Sjú Enlæ í Moskvu? Dró hann til baka eitthvað af gagnrýninni á Sovétríkin? Nei, því Krúsjoff hefði aldrei látið slíkt tækifæri ónotað til að reka fleyg milli KFK og FVA. Það tókst honum ekki.

3. Landamæradeilur.

Maó Tsetung er gagnrýndur fyrir að taka upp landamæradeilur Kína og Sovétríkjanna og stuðning við kröfur Japana um að Sovétríkin skiluðu aftur fjórum japönskum eyjum sem þau hernumdu í stríðinu.

Undir forystu Leníns lýsti sovétstjórnin (192o) alla samninga keisarastjórnarinnar við Kína dauða og ómerka. Á grundvelli þessara dauðu og ómerku samninga gerir Brésnefklíkan nú kröfur um að Sovétríkin skuli um alla framtíð hafa yfirráð yfir svæðum þessum og samþykkir þar með landvinninga keisarans sem réttmæta.

Japönsku eyjarnar voru hernumdar á tímum Stalíns. Þó við teljum Stalín mikinn byltingarmann vitum við að hann gerði villur. Þær

frh. á bls. 5

# Vitnað í „Billann“
# Kratasagan endurtekur sig

Brynjólfur Bjarnason skipaði á sínum tíma forystusveit gamla Kommúnistaflokks Íslands (KFÍ) og Sósíalistaflokksins. Hann, ásamt Einari Olgeirssyni, átti drjúgan þátt í því að henti- og endurskoðunarstefna á marx-lenínismanum sigraði í KFÍ, sem táknaði upphaf að pólitískri afvopnun verkalýðs og alþýðu : Þeir félagarnir voru ötulir við að útþynna sósíalíska hreyfingu með sífelldri sambræðslu við krata. Árangurinn af starfinu sést í dag þar sem er Alþýðubandalagið.

En Brynjólfur var (og er) dágóður penni og eftir hann liggja bækur og greinar sem hinni nýju byltingarhreyfingu er nauðsyn að kynnast. Þar má tileinka sér sitthvað gott og kynnast öðru miður góðu. Þjóðviljinn vitnar gjarnan í "Billann" við hátíðleg tækifæri, og nú ætlar VB að feta í fótsporið. Eftir beina aðild Alþýðubandalagsins að ýmsum lymskulegum kjaraskerðingum undanfarna daga hefur margur spurt : Hvers lags flokkur er þetta eiginlega orðinn ? VB hefur svosem margoft svarað þeirri spurningu og mun áfram svara henni. En í þetta sinn ætlum við að láta Billann svara. Eftirfarandi tilvitnun er úr ræðu sem hann flutti á fundi í Sósíalistafélagi Reykjavíkur 10. apríl 1956 og fjallaði um ALþýðubandalagið og hlutverk Sósíalistaflokksins. Hér er hann að greina þróun Alþýðuflokks þess tíma, en Stefán Jóhann var þá leiðtogi hans. En við biðjum lesendur að hugsa sér Alþýðubandalag dagsins í stað Alþýðuflokksins í tilvitnuninni og setja Lúlla inn í myndina í stað Stefáns Jóhanns.

## GENGISLÆKKUN OG TOLLAHÆKKANIR

"Flokkar borgarstéttarinnar eru fyrst og fremst þingflokkar. Og flokkar sósíaldemókrata voru það líka þegar á dögum II. alþjóðasambandsins, meðan þeir enn voru forystuflokkar verkalýðstéttarinnar og fulltrúar fyrir hagsmuni hennar. Skipulag þeirra og gerð markaðist af þeim verkefnum, sem þeir settu sér, og voru fyrst og fremst þingræðislegs eðlis : Að vera fulltrúar fyrir verkalýðinn í þjóðþingum, tala hans máli á ýmsum sviðum í sambandi við löggjöfina og safna fylgi á þessum grundvelli. Þar sem allt þetta starf var miðað við auðvaldsskipulagið og það, sem samrýmdist því, allt var miðað við ramma hins kapitalíska skipulags og hagkerfis, þá gerðust sósíaldemókratar í æ ríkari mæli borgaralegir í öllum viðhorfum sínum. Hagsmunir verkalýðsins urðu að lúta heildarhagsmunum auðvaldsskipulagsins. Rökrétt afleiðing var samstarf sósíaldemókrata og borgaraflokkanna í styrjöldinni 1914-1918 og sú kenning þeirra, að verkalýðurinn yrði að færa allar þær fórnir, sem af þeim var krafist til þess að vinna styrjöldina. Við könnumst við til hvers þetta sama sjónarmið hefur leitt hér á landi : Fylgið við gengislækkunina 1939, loforð Stefáns Jóhanns um að engar tilraunir yrðu gerðar til kauphækkana, tollahækkanirnar miklu í stjórnartíð Stefáns Jóhanns 1947, - allt til að leysa vanda hins kapitalíska hagkerfis. - Við slíkar aðstæður hlýtur þingflokkurinn að verða kjarninn og aðrir þættir flokkskerfisins til aðstoðar, einskonar kjósendafélög".

(Brynjólfur Bjarnason : Með storminn í fangið II, bls. 78-79, Mál og Menning, Reykjavík 1973). Undirstrikanir eru Verkalýðsblaðsins.

Október

# Nýir bæklingar

Undanfarið jafa magnast mjög deilur í heimshreyfingu marx-lenínista. Verkalýðsblaðið hefur um þessar mundir fastan dálk um þetta efni. Eðlilega er aðeins hægt að drepa á helstu atriði í stuttum greinum.

Nú hefur Októberforlagið gefið út tvo bæklinga með grundvallarefni um þessar deilur um rétta stefnu í stéttabaráttunni á heimsmælikvarða. Eru það "Kenning Maós formanns um að greina milli þriggja heima er mikilvægt framlag til marx-lenínismans", ritstjórnargrein Dagblaðs alþýðunnar í Peking frá 1. nóv. 1977 og "Fræðikenning og starf byltingarinnar", ritstjórnargrein Raddar alþýðunnar í Tirana (Albaníu) 7. júlí 1977. Þessar greinar eru það fyrsta - og eru sem komið er mikilvægasta - sem birst hefur opinberlega af hálfu kínverska og albanska flokksins og meðhöndla þær allítarlega á hvaða forsendum beri að snúast við þeim vanda sem að




hverjum alþýðusinna snýr um þessar mundir - dýpkandi kreppu og yfirvofandi heimsstyrjöld.



# VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200·9

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2500
½ árs áskrift: kr. 1500
Til útlanda: kr. 5500
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30, Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími 29212



## SHA: Landsráðstefna í október

Árleg landráðstefna Samtaka herstöðvaandstæðinga (SHA) verður haldin dagana 21–22. okt. n.k. Ráðstefna þessi er opin öllum herstöðvaandstæðingum og á að fara með æðsta vald samtakanna skv. lögum þeirra.

### Tillögur um lagabreytingar

Þegar þetta er skrifað hafa þegar verið settar fram lagabreytingartillögur sem landsráðstefnan mun fjalla um. Eru tillögumenn 12 einstaklingar innan SHA.

Fyrri tillagan fjallar um nafnbreytingu á samtökunum sem verði samhliða því að grundvöllur þeirra verði víkkaður. Lagt er til að fyrsta grein laganna hljóði svo : "Samtökin heita Samtök herstöðvaandstæðinga og þjóðfrelsis. Þau eru samfylking allra, sem vilja efla sjálfstæði íslensku þjóðarinnar og standa vörð um sjálfræði Íslands."

Í aðra grein laganna sem fjallar um markmið samtakanna er lagt til bætt verði tveimur liðum. Greinin yrði þá þannig :

"Markmið samtakanna eru :
- að herstöðvar hér á landi verði lagðar niður,
- að Ísland segi upp aðildinni að NATÓ og standi utan allra hernaðarbandalaga,
- að standa vörð um efnahagslegt sjálfstæði Íslands gegn ítökum fjölþjóða auðhringa og fjármálastofnana,
- að Ísland taki virkan þát þátt í baráttu smáþjóða fyrir þjóðfrelsi en gegn vígbúnaðarkapphlaupi stórvelda og allri heimsvaldastefnu."

### Víkkaður grundvöllur

Í þessu tillögum er lagt til að barátta herstöðvaandstæðinga nái yfir fleiri svið baráttunnar fyrir verndun sjálfræðis íslensku þjóðarinnar, auk þess sem þar er kveðið á um stuðningsstarf við þjóðfrelsisbaráttu smáþjóða og baráttu gegn allri heimsvaldastefnu og stríðsfyrirætlunum stórvelda.

Búast má við að meginþorri herstöðvaandstæðinga sé fylgjandi þessum markmiðum og reiðubúinn til að taka upp baráttu fyrir þeim. Hins vegar hafa ákveðnir hópar þegar komið fram með gagnrýni á breytingartillögurnar og mælt gegn samþykki þeirra. Þessir hópar eru annars vegar Fylkingin og hins vegar "KFÍ/ML". Rökin sem þeir nota eru þau sömu, þ.e. að með tillögunni sé verið að reyna að draga úr baráttunni gegn hernum og NATÓ með því að beina höfuðþunga baráttu SHA gegn ítökum erlendra auðhringa hér á landi. Með því verði Alþýðubandalaginu gerð setan þægilegri í þeirri ríkisstjórn sem nýlega var mynduð.

Það er vissulega rétt að í málefnasamningi nýju stjórnarinnar er ákvæði um að ítök erlendra auðhringa hérlendis verði ekki aukin enn meir, en það þarf ekki að hafa það í för með sér að AB . óski endilega eftir öflugri fjöldabaráttu til stuðnings því ákvæði. Þvert á móti, samkvæmt reynslunni af síðustu "vinstri stjórn" er líklegra að AB vilji svæfa alla slíka baráttu með því að binda hana við þingsali og nefndir.

– Þótt baráttufólk gegn erlendum auðhringum fagni vissulega ákvæðinu í stjórnarsáttmálanum, hefur það enga ástæðu til að treysta því að við það verði staðið, frekar en önnur loforð AB .

### Afstaða Fylkingarinnar

Það er þó ekki aðeins af ótta við sviksemi AB sem félagar Fylkingarinnar vilja ekki að herstöpvaandstæðinar hefji baráttu gegn ítökum fjölþjóðaauðhringa og fjármálastofnana hér á landi. Raunveruleg ástæða þess hefur áður komið fram m.a í kringum ráðstefnu SHA um auðhringi sem haldin var í mars 1977. Þar lýstu forsvarsmenn fylkingarinnar t.d. Ásgeir Daníelsson því blákalt yfir að aukin umsvif erl. auðhringa hér væru tvímælalaust í þágu ísl. verkalýðs þar sem starfsemi þeirra hér á landi hefði í för með sér fjármagnsinnflutning og bætt kjör verkamanna (!). Þess vegna ætti íslensk alþýða frekar að æskja eftir áframhaldandi stóriðjuþróun með aðstoð Alþjóðabankans og þátttöku erlendra auðhringa heldur en berjast gegn slíku.

Þessi afstaða trotskíistanna sem þeir byggja á ruglfræðum sínum er hins vegar í algjörri mótsögn við raunveruleikann. Reynslan af starfsemi fjölþjóðahringa um allan heim sýnir ótvírætt að með þeim versnar baráttuaðstaða verkafólks, og arðránið eykst.

### Aukið starf

Hér skal engu spáð um það hvort þessar lagabreytingar hljóta samþykkt landsráðstefnunnar eða ekki. Hitt er ljóst að samþykkt þeirra kallar á nauðsyn á mun öflugra starfi en samtökin hafa sýnt hingað til. Því það er ekki nóg að baráttumálin séu góð það verður einnig að vinna að því að ná þeim fram. Síðastliðið ár hefur skipulögð barátta og virkni ekki verið mikil innan SHA. Hverfa- og svæðahópar hafa fæstir haldið uppi starfi (með heiðarlegum undantekningum þó) og um-

Framhald á bls.3

## CHILE: 5 ára ógnarstjórn



Íkjölfar valdaráns fasistanna í Chile fyrir fimm árum fylgdu miklar pólitískar handtökur. Allir þeir sem grunaðir voru um andstöðu við valdatökuna voru umsvifalaust handteknir. Fangelsin fylltust skjótt, svo taka varð fótboltaleikvangi undir þær þúsundir pólitísku fanga. Þessi mynd var tekin á leikvanginum í Santiago höfuðborg Chile, skömmu eftir valdaránið.

Föstudaginn 8. september sl. stóðu Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista) fyrir mótmælastöðu og dreifingu dreifirita í miðbænum í tilefni þess að þann 11. september voru liðin 5 ár frá valdaráni fasistaklíku Pínóchets í Chile.

Aðgerðirnar hófust kl. 16 síðdegis með því að komið var fyrir burst með upplýsingum um kúgunina í Chile og borði strengdur þvert yfir Austurstræti með áletruninni "niður með fasismann – lifi alþýðubaráttan í Chile".

Nokkur hópur félaga og stuðningsmanna dreifðu síðan dreifiriti um fasismann í Chile. Auk þess var Verkalýðsblaðið selt. Aðgerðirnar tókust vel og vöktu mikla athygli vegfarenda, og voru þeir margir sem gáfu sér tíma til að lesa spjöldin á burstinni og dreifiritin. Auk þess seldust meira en 30 eintök af Verkalýðsblaðinu, meðan á aðgerðunum stóð. Aðgerðunum lauk um klukkan 18 sd., en þá voru dreifirit og blöð á þrotum.

## Klofningsbrölt Sigurjóns



Fulltrúar sveitastjórna landsins héldu þing í Reykjavík á dögunum. Á þinginu kom glögglega fram stöðugt versnandi staða smærri sveitarfélaga gagnvart ríkisvaldinu og í framhaldi af því rík tilhneiging sveitastjórna til að sameinast í hópum um framkvæmd ýmissa verkefna og ná samstöðu gagnvart ríkisvaldinu. Kreppuástand ísl. auðvaldsins bitnar meira og meira á litlum sveitarfélögum og kemur hvað greinilegast niður á stöðugum niðurskurði ríkisvaldsins á framlögum til t.d. menntamála og heilsugæslu á landsbyggðinni. Sums staðar eru nýbyggðar heilsugæslustöðvar að leggjast af vegna fjársveltis og þetta ástand á örugglega eftir að versna. "Vinstri" stjórnin heggur í sama knérunn, og sú fyrri. Eina leiðin til að sporna við viðleitni ríkisvalds auðstéttarinnar að velta kreppubyrðunum yfir á alþýðu er sem allra víðtækust samstaða. Þar eru samtök sveitastjórna smærri og meðalstórra sveitarfélaga mikilvæg, en vissulega eru blikur á lofti innan samtaka sveitastjórnanna. Á þinginu gengu fáir en harðsnúnir vildarvinir ríkisvaldsins fram fyrir skjöldu og reyndu að sundra sveitastjórnarmönnum eftir flokkspólitískum línum. Þetta hefur ekki gerst áður í þvílíkum mæli, og sá sem gekk í fylkingarbroddi við að veikja samtök sveitastjórnanna á þennan hátt var Sigurjón Pétursson, forseti borgarstjórnar Reykjavíkur og leiðtogi Alþýðubandalagsins í borgarmálum. Hann, ásamt Björgvini Guðmundssyni, krata, og fleirum, barði það í gegn að borgaralegu þingflokkarnir skiptu á milli sín öllum stjórnarsætum í Sambandi ísl.sveitarfélaga og stagglaðist á því að "samsetnig stjónarinnar yrði að vera í samræmi við þjóðarvilja" (!) Fjölmargir þingfulltrúar mótmæltu þessu klofningsbrölti, en ástæður þess (bröltsins) eru í meginatriðum tvær: annars vegar eigið framapot Sigurjóns og fleiri manna, og hins vegar meðvitaður ásetningur stuðningsmanna "vinstri" stjórnarinnar að reyna að hengja samtök sveitastjónrarmanna aftan í kreppuhryssuna Ólafíu, þ.e. að gera forystusveit sveitastjórnamanna leiðitama ríkisstjórninni. Sveitastjórnarmönnum ber að hafna klofningsbröltinu og styrkja samtök sín enn frekar.

## Rödd alþjóðlegs auðmagns

Eins og kunnugt er, hefur ríkisstjórnin ákveðið að leggja 10% skatt á ferðamannagjaldeyri. Hér er ekki ætlunin að leggja mat á þá ákvörðun eða aðrar svokallaðar "efnahagsráðstafanir" stjórnvalda. Hins vegar er mikilvægt að gefa gaum viðbrögðum Alþjóða gjaldeyrissjóðsins (IMF) og umboðsmanna þessarar efnahagslögreglu alþjóðlegs auðvalds á Íslandi við ráðstöfuninni. Aðstoðar-seðlabankastjóri, Sigurgeir Jónsson, segir við Vísi 11. september, að ráðstöfunin sé "andstæð reglum sjóðsins" og að "sérstakt leyfi þurfi frá sjóðnum til aðgerða af þessu tagi". Þar kemur bankastjórinn fram sem einarður verjandi IMF, en markmið sjóðsins er að koma þjóðum heims á klafa fjölþjóða banka og auðhringja, og tryggja athafnafrelsi auðmagnsins í aðildarríkjum sjóðsins. IMF hefur teygt klær sínar um allar jarðir og beitt úthugstuðum hagrænum aðferðum í formi lánafyrirgreiðslu til að gera þátttökuríkin smám saman háð forsjá sjóðsins. Þegar ríki eru orðin verúlega skuldug, telur sjóðurinn sér fært að segja stjórnvöldum þjóðríkja fyrir verkum í efnahagsmálum. Afskiptin af gjaldeyrisskattinum eru m.a. dæmi um þetta, en Ísland er stórkostlega skuldugt sjóðnum. Yfirmenn Seðlabankans og Fjármálaráðuneytisins hafa ætíð haft náin samskipti við sjóðinn í Washington. Aðalfulltrúi IMF á Íslandi er Jóhannes Nordal, og samkvæmt upplýsingum sem fram koma í greinargerð frá "Baráttuhreyfingu gegn heimsvaldastefnu" (Þjv. 12/11 77) eru samskipti Jóhannesar og IMF einkamál hans. Það er á hans valdi að skammta upplýsingar til íslenskra stjórnvalda um samskipti hans við IMF.

### SJÁLFRÆÐIÐ ER Í HÆTTU!

Erlendar skuldir Íslands eru nú um 33% af "þjóðartekjum", sem er sambærilegt við ýmis þriðja heims ríki í Suður-Ameríku og Afríku. Það þýðir m.ö.o. að pólitískt og efnahagslegt sjálfstæði Íslands er í mikilli hættu og erlent auðmagn hefur mun alvarlegra kverkatak á innanlandsmálum en almenningur fær upplýsingar um. Elías Davíðsson, kerfisfræðingur, sem er manna fróðastur um frumskóga alþjóðlegs auðmagns, hefur skrifað í blaðagrein, að fari svo sem horfi megi búast við því að "fallvalt sjálfræði Íslands víkji fyrir opinberum afskiptum IMF af efnahags landsins". Í sumar var Afríkuríkið Zaire "gert upp" af IMF vegna skulda, en þá stóð IMF m.a. að því að setja "sína menn" í stöður seðlabankastjóra, fjármálaráðuneytisyfirmanna og yfirmanna tollgæslu. Því er ljóst að afskipti IMF af efnahagsstjórn Zaire eru bein og opin og sjálfræði ríkisins þar með skert verulega. Mörg fleiri ríki eru afar illa á vegi stödd og teljast vart hafa efnahagslegt sjálfræði nema að formi til. Ísland er á góðri leið í þann hóp.